Eja Thu gode og trulinde Thion etc. Og thar til var henum giefed thad eina Pund hins illa Thions. Ordsøkena tilagde HErran thessa/ huør hann hefur honum mun giefed verda/ og mun hann nægd hafa/ eñ huor ej hefur/ fra honum mun tekeд verda/ og thad hann hefur.

Hier hofum vier nu eiginlegt underlag og Grundvøll uppleseña Textans Orda / huor eg i mine Rædu/ i sierdeilis mata hneige og heimleide/ til GUds Thiona i andlegre stiett / so sem Safnadarens Lærefedur hafa adur giort / og mier kient / huad og synest af Textans kryngum stædum/ad sie hin firsta og fremsta Meining CHristi i Textanum/ til hvørs Utskyringar vier skulum nu vykia/ skodande thad hid fyrsta og fremsta / ædsta og stædsta/ sem aller GUds Thionar i Andlegre Stiett / eiga ad gangast fyrer/ og lata sig Uppvekia ad hondla trulega med medteknar Gafur/ til GUds Rykis aukningar og Uppbiggingar / sierhuør epter sinne Personu og Stande Megne og Mætte.

 1. Thad

1. Thad fyrsta sem tha skal tillecka/ trulega ad Thiona synum Herra er Alloqvium amicabile, edur elskulegt Avarp og astudlegt Tiltal sem Herrañ veitte theim Thion sem med tiltruad pund hafde trulega Avslad og Hondlad; thui Herrañ avarpade hañ svo/ **Eja thu goode Thion.** Their sem Matthei Evangelium hafa sett uppa Latinskt Mal/ hafa helldur viliad bruka J thessum Stad/ thad Griska Ord Evge, helldur enn thad Latinska Bene, sem i vorum Islendska Bibliu Texta utleggst Eya /thui theim hefur thott thad Griska Merkingar-Rykara thui εὖγε edur Evge, merker thad/ tha einhuor med Fognude Hroosar annars luck u / heidre og laglegheitum / og thad ey ad eins med Ordum/ helldur og eirneñ Hondum og Fotum / og leikur so sem fyrer af Fognude yfer nockurs Frægd og Farsælld/ og uthroopar hana so.

J lykañ Mata giorer nu CHristur Rad fyrer ad avarpa syna Thiona / Evge, Eya thu gode Thion; sem villde hann seigia/ mier

er alkuñug og auglios thyn Truverdugheit og Digd / sem thu hefur stundad / i thui ad frañfilgia thiñe Kallan og Embætte / thad veit og ecke einasta af thynum Ordum / helldur visse eg thad adur eñ thu talader eitt Ord uñ mig / thui eg er sa sem alla hlute veit og thecki oll Hiortu. Myn Augu eru Solu biartare og sia allt huad Mennerner giora. Allra Maña verck eru mier kuñug / og fyrer mynum Augum er ej neitt leint. Thu Trulinde Thion Gllds og hans Ords / lattu thetta gledelega avarp thyns HERra vera thier (1) Aminning til Lytelæteſins / thu ert Thion / thui skalltu ej metnast / helldur lær og stunda Hogværd og Hiartans Lytelæte / af thynum HERra / thad radleggur hann olluñ seigiande / **Læred af mier thui eg er Hogvær og af Hiarta Lytelatur.** Drambseme er Hrrsunarinnar efne og underbuningur / **Audsyn Thig i olluñ hlutum sem Guds Thien-**

Act. 1.
Syr. 40.
1 Tim. 3
Matth 11
2. Cor. 6

 ara.

1 Tim. 6 ara. Sia / Christur thiñ HERRA er Drotteñ Drottnaña / HERra og Kongur Himins og Jardar / og er tho af Hiarta
Matth. 11 Lytelatur / sem hann vottar. Thu ert Thion thui er Otilheirelegt ad thu hroker thier upp / ja / tho thu hafer framar odrum ypparlegar Gafur odlast / Tha gadu thar ad / thu ert ecke Gafaña Herra / helldur Thion / ef GUd svipter thig giefnum Gafum / kantu tha nock ud af thynum Krapte ad taka thær aptur? vertu thui miñugur Syrachs Rada / thess hærre sem thu ert / lytelæt thig thui meir / so mun Drott-
Syr. 3. enn thier hollur vera; Theinckru a dæme Mosis tha hann kom ofañ af Fiallenu fra Drottne med svo skiært skynande asionu /
Exo. 34 ad Israels Syner kunnu ej i hana ad lyta / Tha heingde hann skylu fyrer sitt Andlit; Liome nu thitt Hiarta og heili af storum Vitzmunum og theckingu harra Konsta / tha skalltu varast ad upphrokast thar af / helld-

helldur lat thynar Gafur liggia i hlie/ sem visser thu lyted eda ecke af slykre Visku eda ment; lofe thig adrer uppi Eiruñ/ tha heing med Mose, skylu Lytilætisins fyrer thyna Aſtonir/ seigiande med S. Paule, **Af Nad GUds er eg thad eg er.** Og med Jacob; **Miñe er eg Drottenñ ollum thynum Miskunsemdum og Sañleika/ sem thu hefur veitt thynum Thienara.** 1 Cor. 15.

Gen. 32.

Vreit epter dæme thess mesta/ sem af Konum eru fædder / huor ed sagdest **ecke verdur / ad leisa upp Skothueinge** HErrans Christi. **Eda** og dæm med S. Paule, **Eg em systur** Postulanna, **eg vil sem fegnastur hroosa mier af mynum Breisleika so ad Kraptur Christi bigge med mier.** Joh. 1. 1 Cor. 15. 2 Cor. 12.

Sa sem lytill er fyrer sialfum sier / er mikill fyrer GUde / eñ sa sem sialfum sier

Bernhardus

thocknast /mißthocknast GUde. Favys er sa Thion og Otrur / sem vill eigna sier nockud af Eigu synis Herra og stæra sig so thar af.

Thessare dyrdlegu Lytilætesins Digd var begafadur sa lofleige Herra/ vor andlegur Fader.

Hann var morgum ypparlegum Gafum af GUde giæddur, samt stærde hann sig ecki thar af/ nie ovirdte adra sem Ryngare gafur ødlast høfdu/ helldur liet sem være hañ theirra Lyke/ edur thadañ af miñe/ og i soddañ Lytelæte foor hann alltyd fram/ iñ til hins sydasta / Thad thekti og vissi GUD/ Hiartnanna Ransakare/ thui upphof hann hañ i thessu Lyfe/ og hefur nu upphafed hann til ofallvalltrar Dyrdar og Vegsemdar i Eilyfu Lyfe.

(2) Skal thetta astudlega avarped vera thier Aminning til Tholiñmæde og uñburdar lyndis i huørskins Motlæti og Mañraunum.

Thu ert ad soñu Thion/ eñ tho ecki (i soddañ Embætte og Stande) nockurs daudlegs-

legemans Thion/ helldur JEsu Christi Thion. 1 Tim. 1
S. Paull kallar sig Postula JEsu Christi. Og Thionustumañ JESU Christi. Phil. 1.
Thu ert thess Thion sem heiter Drottenn Zebaoth; Hærre eñ Himineñ. Es. 47. Heb. 7.
Huørs utgangur vered hefur fra upphafe/ og Thegar fra Eilyfd. Mich. 5.
Thess Thion ertu/ sem er sannur Gud og Eilyft Lyf. Joh. 5.

Drottningeñ af Ryke Arabia prysade Sæla Thiona Salomonis. Eñ thesse er meire eñ Salomon, hann var dupt og aska hia hønum / huar fyrer thyn tign/ æra og farsælld yfergeingur Sælu Salomons Thienara. Thar vid skalltu hughriesta thig/ thu Trulinde Hirder og Christi Thion: Hlioter thu af heiminum ad lyda haad og forsman/ siertu Spott mañaña og fyrerlitning Folckfins/ siertu halldeñ hiñ audvirdelegaste edur daare fyrer Christi Saker. Hliot- 1 Reg. 10 Gen. 18. Ps. 22. 1 Cor. 4.

er thu ad vera theirra Afmors kvæde so sem
Ezech. 33 Ezechiel, seigdu med Basilio, thad er oss Anægañleg Æra / ad vier kollustum so Hamektugs Herra Thionar / thar fyrer ma huør eirn af oss / maklega so syngia og seigia ; Kong miñ JEsu eg kalla thig / kalla thu thræl thiñ aptur mig / herratign øngva ad Heimsins sid / helld eg thar meiga jafnast
Matth. 8. vid. Hundrads Høfdingianum til Capernaum var miked Umhugad um siñ Thien / huad miklu meir mun CHristur / sem er hiñ trufastaste / umhiggiu bera fyrer synum Thio-
Gen. 19 num i ollum vidloguin. Hann frelsade Loth af hende Sodomita, Daniel fra Gine
Dan. 6 Leonanna; tha thria meñ ur Elldzofnenum: Thetta reinde og vidurkiende S. Paull, seig-
2 Cor. 4 iande; **Vier lydum offokn / eñ verdum tho ej fyrerlatner / vier verdum underthrickter / eñ fyrerforunst ej.** Huørsu dasamlega hlyfde hann Moise, fyrer theirre uppreisn / sem Korah Dathan og Abiram giørdu i giegn hønuñ.
Num. 16 thar

Thar fyrer ef Heimurenn offsæker og hatar thig/tha hugga thig vid thinn HErra JEsum CHristum/ hann mun allt thitt Bøl bæta/og thig alldreigi yfergiefa.

Thetta forkostulega Drottins fulltinge verid og vidhalld/ fieck ad kanna umm syna hiervistar Daga theesi Drottins Astvin/ vor Sal. Herra. So sem Drottenn veitte honum tha virding/ad vera sinn Thienare/ i kiennimannlegu og Biskuplegu Embætte/ so var hann hans Hialp og Hlyfdarstiolldur/ ecki var hann An Verralldarennar Illindis og øfundar/ helldur enn ønnur GUds Børn og Thionar/ enn thad grandade honumm ey/ thui hann Sat Jafnaa under Skiole hins Hædsta/ og under Skugga hins Almattuga; huad hann optlega Jatade med thydu Thacklæte vid Drottenn; huad hann mun hiedann i fra an aflats thacka i Eilyfa Rosemd Inngeingenn.

2. Thad annad/sem alla Thiona JESU CHristi og hans Orda/a ad Uppvekia/sitt tiltruad Embætte Kostgiæfelega og Trulega

lega ad Stunda / er Sa Vegsamlege Vitnisburdur sem HErrañ giefur sinum Thion/ seigiande; **Eja thu goode og trulinde Thion / af thui thu varst Trur i Litlu / vil eg setia thig yfer Miked.** HErrañ Titlerar theñan Thion **Goodañ og Trulindañ**; hann hrosar Honum fyrer syn Fromheit/ Uppriktugheit/ og Truverdugheit.

First hrosar hann hønum fyrer syn Fromheit/ i thui faliñ/ ad vanda sem best Ord og Giørder Lyf og Lifnad / Sa thad giorer er Godur Madur.

Matt. 12 **Eja thu goode Thion**; Thad er sem hann segde; Thu Frome Ehrlege Thion. Epter soddañ Vegleguñ Vitnisburde / skalltu af mesta Megne stunda og strefa / thu Utvaleñ GUds Thion og Ordsins frammberare / vilier thu a sydann goodur Thion af thynum HErra Aktast og Titlerast / tha kappkosta **ad forleggia hid Von-**

da

da eñ utvelia hid Gooda; Lat af Illu og lær Gott ad giora / vertu I Flock og Filge med Theim Goodu; sia til thu fremier goodañ Riddaraskap / berstu Gooda Barattu; legg Kapp a ad hafa Truna og gooda Samvisku; Thier er sagt huad Gott er / og huad Drotteñ heimter af thier; sem er ad hallda Guds Ord / fremia Kiærleik og vera Lytelatur fyrer thynuñ GUDE. Idka thig sialfañ til Gudhrædslu / hun er til allra hluta nytsamleg; vertu fyrermindan truadra / i Ordenu / i Breitneñe / i Kiærleikanum / i Andanum / i Truñe / i Hreinlyfinu: Epter dæmi S. Pauls, sem so seiger

Es. 7.
Es. 1.
1.Tim.1
2.Tim.4
1.Tim.4
Mich. 6.
1Tim.4

umm sig/ hier giefum oss sialfa til fyrer mindar oss epter ad breita. 2.Thes.3

Menn ackta og alyta meir giordernar enn Ordenn / thui thad er audvellt ad tala thad og thad / enn torveskdara ad giøra ; Sa sem vel kienner og illa lifer / hann brytur nidur med annare Hende / thad sem hann bigger upp med annare. Ad kienna riett enn lifa rangt / thad er ej annad enn fordæma sig med eigenn Munne/ seiger Prosper.

Miked loflegur Vitnisburdur er thad sem H. Ande giefur Zachariæ Kennimanne og Elisabeth, ad Thaug være bæde Rietklat fyrer GUDE / og geinge i ollumm Bodordum og setningum Drottins ostraffanlega. Luc. 1. Løfsverd er su sannferduga Hrosan S. Pauls, sem suo talar umm sialfann sig. 2. Cor.9 Eg tem minn Lykama/ og thiae hann/ so eg predike thad ej odrum/ og verde sialfur rækur.

Vim

Umfram thetta epter sig Riettlætinu/ Trunni/ Kiærleikanum/ Fridnum/ epter aminningu Heilags Anda/ so thu meiger makliga seigia med Job; Eg læt ej af thui Riettlæte sem eg hefe/ myn Samviska bytur mig ecki/ fyrer alls myns Lifnadar saker/ so a sig komenn Gllds Thion er godur Thion. 2 Tim. 2 Job. 27

Thar næst prysar HERrann thennan Thion/ fyrer hans Truverdughett Idne og kostgiæfne i synu Embætte; **Eja thu gode og trulinde Thion**; Sem villde hann seigia; Thier for ødruvys enn theim illa/ Thion/ ecki grofstu thitt Pund i Jørdu eins og hann/ helldur lagder thu allt Kapp a (i kallan thinne) Abatann og Avinningenn ad hafa. Thu CHristi Thion og Kiennemann/ verfladu vel og vandlega/ thier tiltruudu Punde/ uppa mikenn Abata thyns HErra; **gior verk Gudspiallegs Predikara/ frammkvæm Thitt Embætte verduglega.** Vertu trur i ollu Huse 2 Tim. 4

Drott-

Num.12 Drottins eins og Moses. Kiendu thynum Tilheirendum klart GUds Ord/ syndu theim og seigdu Opinskarlega og Einlæglega vilia GUds/ vysa theim Veigenn inn i tha Himnesku Høll og heilogu Jerusalem epter Christi Befalningu.

Mat. 28 Marc.16

1Cor. 12 Ef thu ert og nefnest Lærefader. Tha kappkosta ad uppfræda thyna Tilheirendur/ og vert sa sem **Riettlæted kieñer.**

Es. 53.

Mal. 2. Thu ert Drottins Zebaoths Eingill; **thu ert**

2.Cor. 5 **Sendebode i CHristi stad. Thar fyrer skulu thynar varer Vardveita Lærdomenn**/ so menn meigi sækia Løgmaled af thynum Muñi/og thu skallt birta thynum Tilheirendum Bod og Byfalningar Guds; thu ert underhirder H. CHristi/ Al thui Hiord GUds/ CHristi

Joh. 21. saude og Lomb sem hann baud S. Petre: Thu ert Verkmadur i Kornskieru HERRANS/ Idia thui i Orde Drottins idug-

Mat.13. lega; ber fram af thynum Fiesiod Nytt og Gamallt/ thad er Løgmaled og Evangelium

ium/ og straffa tha sem i mote mæla. Rein og profa Andana huort their eru af GUde. Uppfræd og aminn tha Blindu / og faeysu ad their snue sier fra Myrckrunum til Liossins. Vara hinn Ogudlega og thuerbrotna vid/ ad hann snue sier fra synu Ogudlegu athæfe og veige / ad hann meige lifa / so GUD krefie ej hans Blods af thinne Hende. Hugga hrellda og Istodulitla; umlyd tholinmodlega ostirkva og breiska. Handtiera H. Sacramenta epter CHristi Befalningu/ og epter dæmi hans Postula; varast ad giefa Hundum Helgedom. J Opinberu Safnadarens Samkuæme legg Blessun yfer lydenn / sem Aaron og hans Syner giordu epter Guds Befalningu/ thier skulud leggia mitt Nafn yfer Israels Born / ad eg blessi thaug; bid Idugleg a fyrer theim ad Diøfullinn take ej Orded ur theirra Hiørtum; Stunda epter ad Ungdomuren tucktist og uppalist tilbærelega; Bruka

Tit. 1.
1. Joh. 4.
Ezech. 3
1 Thes. 5
Matt. 7.
Matt. 13

Riettilega og Rielega / Thad andlega Likla-
Joh.20. valld; J Suinu / lat allt **Sidsamlega og
epter Skickan tilganga** / Sa Christi
Thion sem suo giorer er trulindur Thion /
hann fær ad heira thennan Dyrdlegann
Vitnisburd; **Eya thu goode og tru-
linde Thion; af thui Thu varst
trur i litlu / vil eg setia thig yfer
miked / gack inn i thyns HERRA
Fognud.** Slikt athugadi Jafnann og A-
stundadi thessi / vor Andlege Fader / nu hia
Drottne hvylande / hann var i Lysenu sodd
ann eirn Trulindur JESU Christi Thien-
are / sem nu var umrædt; Thetta giørde
hann med Gudrækilegre astundan firr og
syd / og gaf thad til epterdæmis odrum Guds
Thienurum: Thetta ad stunda / og allt
thad einum Guds Thienara ber / thar til a-
minte hann Jafnann alla tha sem hann i synu
Biskuplega Stande ordinerade og vygde

til

til thess Keñemannlega Embættis / huad hann giorde Jafnann med storre Røgsemd/ Andakt og Jñelegre Bæn til Drottins/huad allur theesi Søfnudur matte heita sydast / næsta Suñudag adur Drottinn sa ædste Biskup hann burtkallade / i theirre Prestþygslu,sem tha framkvæmdest.

3. Thad Thridia sem JESU CHristi og hans Orda Thiona/ skal uppvekia sitt tiltruad Embætte kostgiæfelega og trulega ad Stunda / eru thaug Rykuglegu og Vegsamlegu Laun fyrerbuiñ olluṁ Guds Orda Thienuruṁ / sem gooder og truer Thionar kappkosta ad fiñast / thaug Jñebinda thesse Herrans Ord i Textanuṁ. Eg vil setia Thig yfer miked gack inn i thyns HErra fognud.

Eia hier Truad Hiarta / thu CHristi Kieñande / lyka thu Tilheirande; huad kostulegt Kaup vor Endurlausnare giefur theim og ætlar / sem finnast hans Orda og

Erenda trulinder Thionar. Hier er tuent Adgiætande / sem Launnunū vidvykur.

1. Fyrst thad ad Sa Himneske Allsvalldande Herra / vill syna Trulinda Thiona Upphefia og yfer miked setia; **Thu varst trur yfer litlu / eg vil setia Thig yfer miked / gack inn i thyns Herra Fognud /** Seiger Texteñ. Thetta ræteft a Trulindum GUDS Thionum og kiemur fram vid tha J thessu Lyfe Opt og Tydum; **Eg vil setia thig yfer miked /** seiger Herrañ / sem villde hann seigia: Thu thienter mier trulega i Laagu og Lytilsektudu Sæte / nu vil eg Auglioslega setia Thig J ædra og Ypparlegra Sæte. Thegar eirn Ordsins Thienare / eda sa sem vidbyst thad ad verda / og thar epter strefar og stundar / leggst i leti og slensiu / Jhugar lyted eda eckert H. Ritning / og fyrer offtoora Husseins Umhiggiu og Abata Girnd / afrœker Bæn til Drottens / tha Ryrna og Ryngast hans

Gaf=

Gafur Dag fra Deige / eñ tha nockur stundar syna Stiett / huad Laag og Lytil hun er / epter Radum̃ Syrachs. Syr. 3.

**Huad GUD hefur boded thier / thad tak thier Jafnañ til ; Hafe nockur Embætte tha giæte hann syns Embættis /** seiger Postuleñ. Rom.12 **Ef** hann so sem kostgiæfenn Verka Madur i CHristi Vyngardi / umber tholiñmodlega hita og thunga Dagsins / og theincker um- Matt.10 fram allt / sneṁindis ad leita Drottins ; tha Prov. 8. begafar Drottinn hann orlatlega / anda Spekinnar. **Sa sem ottast GUD hann mun finna Spekina / og hun mun mæta honum so sem ein begleg Mooder / og hun mun medtaka hann so sem ein Qvinna fra Meidome synum / hun mun hefia hann yfer syna Naunga / og hans Munni i Sofnudenum uppliuka /**

hun mun Corona hann med Fog-
nude / og Unadsemd / og begafa
Syr. 15. hañ Eilyfu Nafne.

Marger fiñast mentarÿker / sem lenda
thø i lagu sete: af Rade Ulds og stickan /
enn til thess Trua Thions talar soo HER-
RAN CHristur / Vinur thoka thier
upp betur / Eg vil setia Thig yfer
Miked. Minstu thui CHristi Kiennare
CHristi Aminningar/ Ransaked Ritn-
inguna / thui thier meined ydur
Joh. 5. i heñi ad hafa Eilyft Lyf.

Vared sem Rooser plantadar vid Læki/
og giefed af ydur sætañ Ilm / so sem Reik-
Syr. 40. else / blomgest thier sem Liliur / og Ilmed
vel ; byded so Drottins hann yfergiefur
ej sina trua Thiona / hañ eikur theirra Gaf-
ur Æru og upphefd/ og vexar theirra Vird-
ing. Huor hañ hefur / honum mun
Matt.25 giefed verda / og mun hann nægd hafa ;
og

og tho thu naer ej sierlegre uppheſd i theſſu Lyfe/ nie thokest upp betur/ tha ſañast thad i Eilyfu Lyfe ad hann ſetur thig yſer miked tha thu geingur inn i thyns Herra Fognud. Hier ſetur hann thig yſer 1. Pund / 2. Pund edur 5. Pund / enn i Eilyfu Lyfe yſer 10000 Pund; Thar verdur thu algiordur fyrer utañ allañ breſt; allra Maña vitsmuner og Gafur i theſſu Lyfe eru halfverck. Eirniñ viſka Salomonis, tho nockrer hefde hana / eñ i Eilyfu Lyfe veitest algiørlegleikeñ / tha verdum vier ſetter yſer miklu meira eñ hier / tha theckium vier fullkomlega Drottinn og thad er rot theſs Eilyfa Lyfſins. 1 Cor. 13

Thu varst trur i Litlu / eg vil ſetia thig yſer Miked ſeiger HERRAN: Sap. 16. Theſſe Ord JEſu CHriſti ſeñudust og rættust a theſſum vorum Hiartkiæra Herra / huørs Sælann Lykama vier løgdum nu til ſyns Hvyldarſtadar; Hann var first yſer lyted ſettur / tha hann var eirn Diaconus, ſem i Lyfs Soguñe leſed var / enn med thui

Drott=

Drottinn hefur theckt hann i medferd these litla Punds truañ/ sett hañ/ hann yfer meira og meira og ad syduſtu yfer thennañ Stool og Stifte: Nu i Eilyfu Lyfe er hañ settur yfer so miked gott og gledilegt/ ad **thad hefur ej Auga sied/ nie Eyra heirt/ og ej hefur thad i nockurs Mans Hiarta komed.**

(2.) Annad sem hier skal athuga launununi vidvykiande/ er inleidsla i Fognud thess Himneska HERRANS/ **gack inn i thyns HErra Fognud/** seiger Christur/ thad er sem villde hann seigia/ nu skal eg thier umbuna/ miñ Thion/ og endurgialda thitt Gooda og truverduga Erfide/ sem thu hefur utstaded uñ thyna Daga/ thu skallt nu hafa Eilyfann og Oendanlegann Fognud hia sialfum mier; So skal thitt Erfide vel launad verda/ thu skallt ecki Erfida

Es. 65. forgiefins. Thu skallt Neita Avaxtarens thiña Verka / thui **thyn Verk filgia thier**

**thier epter.** Thu Drottins Thion/ thu lydur hier margt misiafnt/ og thui meir sem thu ert trurre thynum HErra epter dæmi Mosis, sem **var trulindur i øllu hans Huse**; Eñ var tho eirn miøg plagadur Madur framar enn aller menn a Jørdu: Davids, sem **var Madur epter Guds Hiarta**: Israels sem Glymde vid Gud/ og sagde/ **faer og iller eru myner Dagar.** Hier Jñgeingur optlega JEsu Thion i sitt Svefnhus/ eda heimuglegann Stad/ og utheller heitum Tarum/ yfer siña Tilheirenda thuerud/ Illsku og ohlydne/ huad theim hinum sømu er ej gott/ enn thu gode og True Thion JEsu/ lyd thad tholiñmodlega uñ lytiñ Tyma/ su tyd kiemur ad thiñ HERRA avarpar thig sætlega/ seigiande/ **Gack nu iñ i Fognud thyns Herra** Eg skal nu stilla thyn Tarafoll; Thetta verdur. (1) Andvaralaus Rosamur/ og fridsamlegur Fognudur/ thar nær ecki Cain til

Apo.14.
Num.12
2Sam.15
Gen.47.
Heb.13.

Gen. 4. Abels ad deida hann: Ecki nær Doeg thar
til Drottins Kieñemaña/ ad meida tha/ deida
1 Sam. 22 eda forliuga. Ecki Jesabel til Eliam ad
1 Reg. 19 offæria hann. Tueir af theim thremur
Moñum sem birtust Abraham i Mamre/
Jñgeingu i Hus Loths, og voru thar ey i
Naduñ fyrer Sodomitum, ej helldur sialf-
ur Loth; Enn thu Drottins Sendebode/
tha thu geingur inn i Fagnadarfull hybyle
thyns HERRA/ tha hefur thu fullkomeñ
Grid/ frid og nader/ tha byr thu i Husum
fridarens/ i Oruggre biggingu og Okuydeñe
Es. 32. Rosemd; thar byr og blyfur thu ohultare eñ
Noe i Orckiñe a Tyma Flodsins.

(2) I annañ Mata verdur thessi Fogn-
udur Rykuglegur / Philippus sagde til
CHristum/ syn oss Fodureñ / tha
Joh. 14. Nœger oss. Eñ tha thu geingur inn i
Fognud thyns HERra / tha sier thu thiñ
HERra Auglite til Auglitis/ so sem hann
er/ tha sier thu thann Kongiñ dyrdareñar i
Ps. 24. siñi Pryde: thad er su rietta Rot og Stofn
theß

thess Nykuglega Fagnadar: Thad underbyr alla Dyrd og Sælu Utvalldra/ sem sia ma af Ordum Postulanna/ er sau forklaran CHristi a Fiallinu Tabor: Tha thu nu Inngeingur i Fognud thyns HErra og sier hann/ tha muntu seigia med Philippo, nu næger mier / nu hefe eg nogañ Fognud og Glede / noga Unadsemd/ Sælu / og Dyrd; Tha muntu seigia med Postulum CHristi / Gott er oss hier ad vera: Ja/ thu munt skoda hans Auglit J Riettlæte og munt Saddur verda/ epter Ordum Davids. Elizæus gieck inni Hus theirrar Sunamitissu Qviñu og tok thar Fædu: Eñ tha thu inngeingur i thad Fagnadar Hused HErrans JESU ad endadre thine hiervistar Reisu/ tha situr thu til Bords med Abraham Isaach og Jacob, Ja/ med sialfum JEsu thynum HErra thui thu munt tha sitia hia honum a Stole. Hañ mun giefa thier ad Eta af

Matt. 17.
Matt. 17.
Ps. 17.
2. Reg. 4
Apo. 4.

L 2 Lyf-

Lyssins Trienu/ thad midt i Guds
Apoc. 2. Paradys er: Thar Drickiar hañ
thig med Vel-listingu / so sem med
rennande Vatne / so thu verdur
Druckiñ af nægdar Goße hans
Psal. 34. Huss.

(3.) J Thridia Mata verdur theesi Fognudur Gallalaus Fognudur/ styr og klar fra trega og tarum: Hier mattu Veina
Joh. 16. og Kveina med Christi Læresveinum/ thar heimureñ hlær og fagnar a medañ; Enn tha tyd a hann fyrer hondum med synum Adheingiurum og Thienurum/ ad hañ mun fa ad Veina og Kveina og thad um̃ alla Eilyfd. **Vey ydur sem Hlæid hier Thier munud Æpa og Yla** seiger
Luc. 16. CHristur. Eñ GUDS Thionar i añann stad; byda Glede-tydar epter hans Lofan. Sia thu/ myner Thionar skulu Eta/ enn thier skulud Hungra; Sia thu/ myner

Thion-

Thionar skulu drecka/ eñ thier skulud thioster vera; Sia thu / myner Thionar skulu glader vera/ enn thier skulud til Skamar verda; Sia thu/ myner Thionar skulu med goodu giede kiætast/ enn thier skulud af Hiartans Angre hroopa og af Vesælldar Eimd æpa; Es. 65.
Sia thu/ eg vil giøra Jerusalem til Unadsemdar/ og hennar Folck til Fagnadar/ og jeg vil gladur vera yfer Jerusalem, og gledia mig yfer mynu Folcke/ og thar skal ecki leingur iñi Heird vera Raust Gratsins nie Raust Kveinunareñar.

(4.) J Fiorda Mata/ verdur thessi Føgnudur eirn Himneskur Føgnudur: Thessi GUDS Thiona Føgnudur verdur ej so sem Veralldareñar Føgnudur / um̃ huørn Bernhardus so seiger/ Heimsins Gledskapur er ohegndur Strakskapur / enn thitt Lyf og thyn Sala mun tha gledia sig fillilega i Psal. 84.
theim lifanda GUDE. Sa Riettlate Rom. 2.
HERRA / mun giallda einum og sier huørium̃ epter hans Verckum̃/ sem er/ Heidur og Vegsemd/ og ofallvallta veru/ theim

sem med Tholiñmæde i goodum Verckum stunda epter Eilyfu Lyfe. Su glede sem thu att fyrer høndum/er ecki holldleg/ helldur Himnesk/ epter GUDS Anda avysan og losan. Es. 56. Sia/ eg vil skapa nyañ Himin og nya Jord/ so menn munu ej leingur miñast a hid firra/ nie thad uppa Hiartad leggia/ helldur munu their gledia sig Eilyflegana/ og glader vera yfer thui sem eg skapa. Holldleg kiæte og gladlæte/ er optast meingad i thessu Lyfe med beiskre Angist og Voli/ sem dæmi Ester. 7. Hamans Syner/ huør heingdur var nalega a somu stundu sem hann var Hiartagladastur og Hofmodugastur/ enn sa Himneski Fognudur HERRANS/ i huorn hans Thionar skulu innganga/ Meingast med Aungvu Angre Sut nie Sorg/ Thar skulu eingenn Ranginde leingur heirast i thynu Lande/ og eingiñ Skadsemd nie fordiørfun

i thyn-

i thynum Takmørkum / helldur skulu thyner Murvegger hialpræded / og thynar Dyr forprys kallast / seiger Andi DROttins. Ef. 60.
**Ydvart Hiarta skal fagna/og ydvarn Fognud skal eingen fra ydur taka.** Thar heirest su Raust Oafslatanlega; Joh. 16
**aller Thier sem thirster erud/ komed hingad til Vatnsins/** Fagnadareus og Unadsemdarennar. Esa. 55.

(5.) J Fimta Mata verdur thessi Fognudur/ Leidindalaus Fognudur. J thessum heime giesst eingen vellist/ eda valla nockur so megn eda mikil / ad hun leidest ecki med Langvaranlegheitum / vare hun leinge / thui Mans Natturann er nyungagiørn / enn sa Fognudur vors HERRA / i huørn vier eigum fyrer høndum ad inngauga / hann blyfur stødugur og oumskiptelegur um allar Allder/ og færer tho ongvan leida med sier. Thuilykt mun verda Jnndæli eilyfrar Sælu; fegurd/ pryde/ og huad annad vier kunnum hier i Heimi Nafni ad

nefna/

nefna / og hofum thær i Hendenne / epter instu og stæstdu epterlangan / ad af thui verdum vier tho alldrei Of-Sadder. Thu munt alltyd sediast / seiger Augustinus, enn tho alldrei offediast: Ja / their Utvølldu seigia oaflatanlega Nott og Dag: Heilagur / Heilagur / Heilagur er GUd Drott-
Apoc. 4 inn Almattugur / thad er / tha lister og thister leingur og leingur ad sia og skoda GUD / lofa GUD / tala og traktera um̃ hans dyrd og Dasemder.

(6.) J Siotta Mata verdur thessi Fognudur / ofallvalltur Fognudur: Heimsins Fognudur er stuttur og stopull / thui
Prov. 14 epter Hlatur kiemur Hrigd.

Sa Ryke Kornbonde / sem leinge hugde ad gledia syna Ønd af samãdregnum Nægtum̃ / hlaut ad sleppa heñi a somu Næturstundu; Eñ thu gode og trulinde Thion tharft ej slyk ostoduglegheit ad hrædast / thui thu munt Rykia med thynum̃ HErra fra
Apo. 22. Eilyfd til Eilyfdar. Heilager hiñs

Hæd,

Hædsta munu ryked under sig taka/ og eignast thad um Allder og ad Eilyfu. Eilyf Gledi mun vera yfer theirra Høfdum/ sem innganga i tha Himnesku Zion seiger Ande Gllds; Dan. 7 Es. 35.

Thui skalltu ey ofangrast ( Utvaleñ Glloß Thion) tho thu hlioter ad Stryda og miøg margt ad lyda J thynu Embætte og Erinde thyns Herra / vertu Sterkur i Drottne thynum HERra/ thitt Verdkaup er noglegt a Himnum hia honum. Tho thu huoter ad Deya / deydu godgladur og fullhugadur / thuiad/ thu goode og trulinde Thion Drottins endar thar med thitt Embætte i thessu Lyfe/ og thyns HErra Erinde/ allt Stryd og Mædu thessa Lyfs/ tha høylist thu af thynu Erfide. CHristur thinn HErra er thitt Lyf/ eñ Daudeñ thiñ aviñingur/ thui hann er thier Jñgangur i thañ Matt. 5. Ap. 14.

 æst-

Phil.1. æſkelega Føgnud thyns HErra epter Loſan
Lauſnarans: **Huar eg er/ thar ſkal**
Joh. 12. **og minn Thienare vera**; thar afhen
1.Petr.5 dec thier tha ovinañlegu Coronu Dyrdar-
eñar/ hiñ ædſte Hirder/ epter ſiñe ovinſan-
legre Loſan/ thar hañ ſeiger: **Vertu**
Apoc.2. **Trur allt til enda/og mun eg giefa**
**thier Coronu Lyffins.** J Theñann
Andvaralauſa / Rykuglega / Gallalauſa/
Hiñneſta / Leidindalauſa / Ofallvallta og
Endalauſa Føgnud ſyns Herra/ theſs Him-
neſta HErra / er theſsi vor Sæli og Sal.
Herra / huoriuñ vier nu veittuñ tha ſyduſtu
Thienuſtu / Iñgeingeñ / i honuñ Lifer og
Liomar nu hans Signada Sala; Hun ſier
nu ſyns HErra Auglit i Riettlæte. Iſodd-
Pſal.17. an Epterlæte og Sælgiæte / ſem ecke hefur
Auga ſied nie Eyra heirt / og ecke hefur J
nockurs Mans Hiarta uppſtyged i theſſu
Lyfe; Thar hefur hun funded alla undañ-
farna Aſtvine Utvalldar Saler og Eing-

la

la Drottins : Thar bydur hun Epter threiande Astvina/ og allra Drottins Trulundra Thiona / thar bydur hun i Gledelegre Von Dyrdarennar Upprisu syns Lykama / og theirra Fagnadarryku Samfunda a thañ sydasta Dag. Drottiñ giefe ad Umtheincking ag Jhugañ thess Fagnadar/ J huorn hañ er nu Jñgeingeñ / mætte so rykuglega Biggia i Hiortum hans Astvina / ad Su Saara Sorg sem their nu hafa ad bera vegna hans Vidskilnadar / mætte thar med Sefast og Nidursetiast.

Drotteñ su rietta Roteñ thess Sætasta og Dyrmætasta Fagnadar/ verke so sterkañ og stodugañ Fegnud i theirra iñra Mañe/ Grundvalladañ i sialfs hans sætu Fyrerheitum / ad their i sterkre Tru og stadfastre Tholeñmæde vel vid une/ad byda theirra sætu Samfunda i sælu eilyfrar Dyrdar/ og thangad til their veitast/ ad afstanda thetta og sier huørt Sorgar Jel sem ad hende koma kañ. Thu gode Drotteñ giefdu oss thin-

um̃ Riett-Truudum̃ Thionum̃ og Børnum̃/ sem nu epter Lifum̃/ og vorrar Burtferdar bydum / velviliugt Gied og Siñe / ad heira thitt H. Ord/ hrein og From Hiørtu ad geima thitt gooda Ord / og Tholiñmoda Salu / ad byda thiñar Tignarlegrar Tilkomu a Dag Endurskickunareñar/ i Skyum̃ Himinsens/ ad vier so epter Endada Stutta Sorgar og Taara Tyd/ hreppum̃ og hliotum̃ Endalausa og Eilyfa Fagnadar-Tyd til Thiñar Hablessadrar Hægre Handar

AMEN.



❦(o)❦

ἘΛΕΓΕΙΟΝ
IN
TRISTES EXEQVIAS
VIRI
NOBILISSIMI ADMODUM REVERENDI
ET SPECTATISSIMI

# Dn. EINERI THOR-STENII

Ecclesiæ Mulensis in Boreali Islandia,
Qvondam, per Annos 30. Pastoris Fidelissimi; Deinde Holanæ Diæceseos Qvatuor & Sesni=anno Episcopi,
ut eruditissimi ita vigilantissimi

Qvi

Cum supremum Diem, Anno a partu Virgineo M.DC XC.VI. Ætatis LXIII. Sexto Idus Octob. feliciter Obiisset; in templo Divæ Mariæ, qvod est Holis Hialltallensium, postridie Iduum mensis ejusdem, ingenti Magnatum freqventia, & lamentabili suorum planctu humo mandatur.

Job: 19. v. 25. 26. 27.

וַאֲנִי יָדַעְתִּי גֹּאֲלִי חָי וְאַחֲרוֹן עַל־עָפָר יָקוּם׃
וְאַחַר עוֹרִי נִקְּפוּ־זֹאת וּמִבְּשָׂרִי אֶחֱזֶה אֱלוֹהַּ׃
אֲשֶׁר אֲנִי אֶחֱזֶה־לִּי וְעֵינַי רָאוּ וְלֹא־זָר

Affer opem ſupreme parens, Sol igneus Auſtri
Ad Tropicum flavo lumine vertit iter:
Vertit iter, fatoqve recens expalluit, atram
Perniciem movit Scorpius ungve ferox.
Nec ſatis egreſſus pendentis brachia Libræ
Cum probat efflantem dira venena Nepam
Non potuit Soſpes Chelas ſufferre minaces:
Subductum qveritur frigida terra decus.
Mænaliam pridem radios vibravit ad Arcton
Et croceum Thules ſparſit in arva jubar.
At veluti raptim nubes Aqvilonis in æſtu
Diſpereunt, Phæbi Splendor ab ore ruit.
Nox redit, obſcurâ ſqvalent nigredine terræ
Umbris Cimmeriis, velat inane polus.
Ambiguas errare vias ſudore madentes
Cogimur, & gelidæ noctis opaca ſeqvi.
Præterea frigeſcit humus, nec gramina ſucco
Exſurgunt viridi, fructus ubiqve riget.
Pampineis raræ dependent vitibus uvæ,
Occumbit placido caſſa tepore Ceres
Cur ita? diſceſſus roſei Titanis in oras
Auſtrinas, gelidis efficit iſta plagis
Luctifico certè res hæc eſt digna tremore
Qvo molles oculis eliciantur aqvæ
Diſparentis enim ſignantur imagine Solis
Undiqve permagni funera mæſta viri.
Non rutili nudata vides faſtigia cœli
Lampade puniceum qvæ movet axe diem.

Non æterna carent divino pulpita Sole
    Nutu perpetuo, qvi regit omne ſuo.
Qvi facit auricomum flammis luceſcere Phæbum
    Et cava Stelliferæ limina ſtare domus.
Sed nimis angenti jacturâ myſticus æther
    Læditur Arctois junctus ad arva vadis.
Scilicet effuſo Chriſti purgata cruore
    Sponſa micans, variis ſortis onuſta malis.
Heu! adeunte Capri flexas Hyperione metas,
    Nobilius ceſſit lumen ab arce Soli.
Qvis non triſtè gemat? Qvis non ſuſpiria luctu
    Explicet? & pullis induat oſſa ſtolis?
Occidit Holanæ præſignis Epiſcopus ædis
    Qvem pietas ſacro fulſit honore gravem.
Splendit Hyberno, ceu lux Phæbeja, Bootæ
    Virtutum radiis Chyntius ille micans.
Cui velut ignifero, qvicqvid tenuêre decoris,
    Sol dedit Omnipotens: ter benedicta Trias.
Sic petiit vitæ Tropicum conamine juſto,
    Ædificans Domini cum pietate gregem.
Vitâ etenim ſanctâ nituit, nituitqve feraci
    Dogmate, reſpiciens verba ſacrata DEI.
Juſtitiæ ſervans munus præſtabat egenis
    Largiter, in Rixas cenſor amarus erat.
Scorpius interea librata ſorte dierum
    Mortis edax furiis pectus herile necat.
O! infauſta Nepæ Boreali ſydera luci
    O! gravis in patriam triſtia jura necis,

Qvo

Qvò propiùs blandi ſonuerunt gaudia plectri
Præſulis hòc veniunt fata dolenda magis.
Novit atrox glacie tellus Erimantidos urſæ
Qvot dederint plauſus fædere templa novo.
Qvàm læti Cytharæ fuerint dulcedine campi,
Moverit & radians pulcra Theatra Chelys.
Novit & argenti qvantùm fulgore coruſco
Splenduerint Holis menſa, cubile, domus.
Præſes enim tereti mitrâ lituoqve decorus
Connubii Dominam junxit amore ſibi,
Qvæ virtute, bonis, formâ, Sophiæqve decore
Fæmineum Patriæ vincit ubiqve gregem.
Magnifico luxu cum jam celebrata placeret
Hora brevis ſocii dulce jugumqve tori;
Nox lethalis adeſt, dirumpunt ſtamina Parcæ
Et ſpoliant Nuptæ corpus Amore, viro.
Vix ſemel à Tædis mutârat cornua Phæbe
Cum Mortis rabies, pallida membra facit.
O! qvàm præcipiti volvuntur gaudia vultu?
Læta venit faciem lux, bene mæſta perit.
Sex ea bisqve decem vicibus conſortia lecti
Occiduo cernunt gurgite ſolis eqvos.
Temporis hoc ſpacio felix Hymenæus amori
Viſus erat, caſto pectus utriqve ſalit.
Nunc tremor incedit planctus diverberat auras
Splendor abeſt, iterum ſors truculenta furit.
Cum ſacra perpendo Thalami fædusqve jugale
Et ſimul hunc caſum, mens ſtupet ora ſilent.

Cer-

Certè aderam Festis lætus socialibus olim
Ex placito votum contigit omne mihi.
Jam lacrimas inter versor gemitusqve sonoros
Perqve meas oculi decidit unda genas.
Qvis satis agnovit qvantùm fortuna vacillet,
Et nimiùm faustis insidiosa fluat?
Nunc juvat & vultu ridet perversa sereno,
Nunc perqvam rabidis deprimit atra malis.
En! plateas fusim tritas lamenta peragrant,
Qvà prius intonuit carmine dulce melos,
Prospera jam pridem sociis conviva precatus
Cæpit iter læto pectore qvisqve suum.
Pars abeunt, pars ire student, pars obvia saltem
Aspiciunt propriæ lumine tecta domus
Rara manùs notos amplexu, rara salute
Donat, rara novi, qvod meminêre, ferunt.
Nam prius agnoscunt legatos ore qverelas
Mittere, & ad varios ista dolenda loqvi.
Immutate stolas habitu procedite furvo
Sacrorum patriæ dux venerandus obit.
Fœderis optati celebrastis jubila qvondam,
Lætitiam lætis exhibuisse decet.
Nunc qvia res fluitant concernite tristia tristes
Exseqvias nostri præsulis ite pias.
Unde virûm lacrimæ, matres ululatibus opplent
Æthera, nîl remoræ, solvere justa placet.
Jam faciunt pompam, tumulo modulantur honores;
Ex superat, carmen, Nænia, dulce tori.


Sic

Sic hominùm pendent tenui consortia filo
    Sic æs, imperium, gratia, forma, lepos.
Fulmina, qvæ placuit, sors nunc inversa repente
    Vibrat & evertit robore ad aucta prius.
Nuper erat facie nobis blandita micante
    Mox odio castos pressit acerba Lares,
Ingeminat qvestus dum servat nomina Thule
    Et qvanto fuerit vulnere læsa refert.
Mæsta dolet conjux, lugent hunc Pignora casum,
    Effundit gemitus, undiqve mæsta cohors.
Exhibet angorem pubescens turba Lycei
    Hanc tacito plagam corde volutat iners.
Non tamen attente qvæ sint discrimina vitæ,
    Qvàm suus exiguo tempore cursus eat.
Scilicet ut viridem privat falx gramine campum
    Mors ita prosternit flebile corpus humi.
Ceu rapidi vivo demanant fonte liqvores
    Ætas non aliter lubrica nostra fluit.
Surgit, & actutum pluviæ se bulla relaxat
    Sic hominum virtus germinat atqve cadit.
Omne decus cæli terræqve volubile cerno
    Spes confisa DEO sola fidesqve juvant.
O! Stupidos qvi vasta nimis molimina captant
    Instanterqve solent fortis amare vices.
Officiis, qvæ jure gerunt majora prehensant
    Nominis elatos vexat anhela sitis.
Sed pereunt, pereunt raptim, Mors emicat ultrix,
    Et secat agresti vulnera falce minax.

Arboris hæc vetitæ peperit contagia morſus
Hujus erat genitrix primitus Eva mali.
Unde animæ carniqve lues ac turpis egeſtas
Unde ſibi lethum nemo cavere poteſt.
Nirea non vultus ſervat non robur Achillem
Non ſuperat fatum Dædalus arte ſuum.
Eminuit doctâ Salomon pulcredine mentis
Et via ceu reliqvis una terenda fuit.
Dives opum Cræſus, ſolio divesqve potenti
Nec minus è vita ceſſit ut æris inops.
Sic patriæ lumen (qvamvis ſacer undiqve donis
Præcipuis) decuit Mortis inire crucem.
Nil valet in rigidam virtus doctrina venuſtas
Nil genus excellens imperiumqve nihil.
Qvid Plevritis agis? qvid noſtri ſydus opacum
Reddis? qvid Dominum tuſſis acore necas?
Non poterit qvisqvam numero comprêndere Mortis
Servitia aut tremulæ mente putare vias.
Qva datur incedit vaſtum violenta per Orbem
Sæpe truci macerat verbere ſæpe levi.
Te qvoqve præcellens ſævo Scagneida furore
Obruit; in veſtrum bis tulit arma torum.
Sed Deus effecit ſapiens qvi vexat amatos
Illius hoc placitum conſiliumqve fuit
Non injuſta patrat meruerunt crimine plagam
Gens humana procax: leniter ipſe ferit,
Sæpius obſiſtit ſceleri mærore futuro.
Rebus & adverſis noſtra probanda fides.

No-

Nobilis Heroina piis exemplar ut extes,
    Et Christo similis fata finistra luis.
Siste precor, lacrimas, vastos expelle dolores,
    Prosper in Elysiis vivit amicus agris.
Ora DEI conjux, sacrum Pæana canentes,
    Lustrant, cum sociis vester uterqve suis.
Amplius æternùm neqveunt peccare beati
    Delicias igitur semper abunde tenent.
O! Reqvies, o! læta salus, o! grata voluptas
    Invenies tandem Morte soluta viros.
Cælitibus juncti vitam ducetis amænam
    Vos etiam corpus fulgidus inter ero.

In debiti amoris observantiæqve τεκμήριον
gemebundus posuit,

JONAS ARNÆUS
Sch. Hol. p. t. Rector.

# ERRATA.

Pagina 2. Salaomon, les Salomon. Pag. 7. hugar / les huggar. Pag. 16. fig/ les sig. Pag. 25. hnørtum̃ les huortum̃. Pag. 27. giørdu/ les giørdu. Pag. 34. nedst/ Konge / les Kongl. Pag. 38. sina / les siña Pag. 39. veitt / les veit. Pag. 50. lætur/ les lætur Ibidem Uppesiñ/ les Upplesiñ. Pag. 59. veit og ecki/ les veit eg ecki. Pag. 88. Ovinan̄legu / les Ovisnanlegu. J thui 43. Versi. Splendit, les Splenduit.

# Einfølld Lykpredikun
## Yfer Greftan/
## Edla Ehrugøfugrar / Gud-hræddrar og Dygdum-margprydd-drar Matronæ
# Ingebiargar Gysla Dottur/
Blessadrar Minningar.

Thess Vel-Edla Vel-Ehruverduga og Halærda Herra Biskupsens/
## Herra Einars Thorsteinssonar
Hiart-Kiærustu Eckta-Husfrur

Hvor med Rosamlegu Andlate hiedan Sofnade / thann 8. Junii Anni 1695. a thui fimtugasta og thridia Aare syns Aldurs / og thann fiortanda Dag thess sama Manadar / var til syns Hvyldar-Stadar løgd / i Domkirkiunne ad Hoolum i margra Gøfugra / Heidurlegra/ og Ehru-samlegra Manna vidur-vist.

Sam sett og framflutt af Sr. Jone Gunnlaugs-Syne Guds Ords Thienara til Domkyrkiunar ad Hoolum.

Prentad i Kaupenhafn / Aar 1700.

Juva JEHOVA

Sa eilyflega Blessade lyfsins Høfdynge Herrann JEsus Christus Guds Son sem Daudann dejande deidde/ eñ Lyfed og odaudleikann upprysandi i Lios leiddi/ alyte oss alla i siñe miskun og mikellre giæsku/ veikar og daudlegar Manneskiur / sem under hans storu Tholenmæde/ enn nu Lifande threium i thessum Naudanna og Daudans Dal / og veite oss syns H. Anda upplysingu / stirk og stiornan / frid og fognud / nu og jafnann / saker syns mikla Nadar Nafns og fullkomlegustu forthienustu Amen.

Os. 13.

2 Tim. 1.

## Admonitio ex Ps: 137.



Sa Dyrdlege Gllds Mann David Kongur/ talar so af Spadomlegum Anda/ under personu Israelis Sona sem sydar voru hardlega halldner i theirri Babilonisku Herleidingu seigiandi;

**Vid Vøtnen i Babilon satum vier og grietum/ tha vier mintunst a Zion, vorar Horpur heingdum vier uppa Vyderen sem thar var.**

Theita Eimdarstand Israelitanna sem David firer sa af Heilags Anda openberan/ og i thessum Ordum umircker/ ma heimfærast uppa alla oss med Andlegum hætti. Their voru thann Tyd Utlender i framande Lande/ Herleidder under omilldra og hardsylldra Ovina Hendi i Babilon; Vid hana ma lykiast Heimur thesse med synum Hroka og stora osstopa/ **hvors Hofdinge**

ge ad er Sathan. J thessare bragdafullu Babilon erum vier utlender og framande og thar med efter vorum illum uppruna af Adam Herledingar fangar thy og Thrælar Syndareñar/ Daudans og Sathans / thui hvor Syndena giorer hañ er af Dioflenum og hefur Daudann til Verdlauna Their voru utflæmder fra Zion, thad er Jerusalem/ theim Heilaga Stad sem Drotten utvalde sier til Bustadar ad thar væri hans Hvyld og Minning hans Nafns sem David vottar. Thetta hofdu Their bakad sier med synum Syndum / thar their hlyddu ecke Raustene Drottens. Eins giørde Adam vor firste Fader / Thad vard hønum og ollum oss full utreckningar Ordsøk fra theirre himnesku Zion og heilogu Jerusalem

Joh. 14.
1 Pet. 2.
Rom. 7.
1 Joh. 3.
Rom. 6.
Exod. 20.
Ps. 131.
Devt. 28.

thvi vorar odygder adskildu oss
Es. 59. og vorn GUD. Tha their Israelitar
rendu synum Augum og Huga til Zion,
hvar ed var Mustere Drottens og Nadar
Stollen/ grietu their og barmudu sier/ thvi
their kønnudust tha vid / hvad their hofdu
mist: So høfum vier fulla og alla Ordsøk/
alla tyma ad grata/ ja ef møgulegt være
med blodugum Tarum/ thaug ill og ojøfn
umskifte/ tha vier tokum thessa utlegd fyrer
tha Himnesku vistar veru/ og thessa mirckvu
Eidemøk/ fyrer tha blessudu Zion, hvor-
Apoc. 21. ia ad uppliomar Oyrd Drottens
og thar til Sathans Tyrannaskap og Illsku/
fyrer GUDS Vinskap og Giæsku; Thetta
høfdum vier matt um̃ alla Eilyfd / an
allrar Hugsvolunar Harma og Grata /
hefde ecke Sonur GUds vidriett vort Raad/
og a thessu bitra Bøli Bot um̃ed.

Their satu med sin Sorgargrat vid
Vøtnen i Babilon / sem voru i veige fyrer
theim bæde stor og straung/ einckum Tygris

Og

og Evphrates hin nafnkiendustu: So hliotum vier i Babilon thessa Heims/ gratande og syt- ande ad sitia vid thaug tuø straungu stør vøtn Krossens og Daudans/ hvor optlega ganga inn ad Saluñe med synum Beisleika sem David um̃qvartar. Hvad margur mun i hørmungunum kveina / so theinckiande edur seigiande med Zion? **Drotten hefur yfergiefed mig/ Drotten hefur for- gleimt mier.** Allra Natturu hriller vid Daudanum / flester avarpa hañ soleidis ; **Og thu Daude/ hvad beiskur ertu nær nockur Madur um̃ thig hugsar.** Ef yfer thesse Vøtnenn hliootum vier tho ad fara / firr enn vier komum̃ til theirrar Himnesku Zion thvi **fyrer miklar Hør- mungar hliotum vier inn ad ganga i GUDS Riike. Dauden er eirnen Vegur allrar Verald- ar/ thvi Mønnunum er tilskickad** **Einu-**

Ps. 69.
Es. 49.
Syr. 41.
Act. 14.
Jos. 23.

Heb. 9. einusinne ad deya. So beyt Sorgen a tha Israelita i theirra utlegd/ ad their gaatu sier eckert ad gamne giort / their heingdu upp synar Horpur a Vyder-Eikurnar hia Vatns-Bockunum / og gatu ecki spilad uppa Thær / so var theirra angist afeing mastie ej Sydst fyrer tha ordsøk / ad their hafe vonarlauser vered umm syna aptur komu til Zion, thui their hielldu optast
Es. 35. Lyted uppa fyrer sagner Guds Spamaña So beyger eñ nu marga thessa heims motgangur/ Lyka daudans Kuyde / ad their meiga seigia sem hiñ Riettlate Job. Myn
Job. 30. Harpa er orden mier ein Sorgar Klogun / og myn hliodpypa hrigdargratur. Enn Lofadur sie GUd vor ad eilyfu thar fyrer / ad vier hofum tha hiartanlega harmabot/ ad oss er vyst / sem thad vilium / og thar efter stundums ad komast apfur i vort Eilyfa Fødurland til theirrar Himnesku Zion

Zion og nyu Jerusalem, thui JEsus sem ej lygur hefur lofad os thui / og hefur tilbued os thar samastad / thui so hlioda hans Ord. Tha jeg fer hiedan ad tilbua ydur Stad / tha vil eg apturkoma og taka ydur til myn so Thier Sieud thar sem jeg er; tha uppfillast a oss andlegum Jsraels Bornum i andlegann Mata orden Esa. their hiner endur kieptu Drottens munu apturkoma / og til Zion koma med fagnadar kiæti Eilyf gledi mun vera yfer theirra hofdum / gledi og fognud munu their Hendla / enn Hrigd og Sorg mun hliota burt ad vykia: Vid thessa ofallvallta heim von skulum vier hugga os i allre vorre utlegdar hrigd: Hier vid skulum vier hugga os / tha vier stium vid thad stranga motlætinganna Vatn / Apc. 21. Joh. 14. Es. 35:

og thess barur belgiast uppa oss/ halldandi
Rom. 8. thad so med Sanct. Paule. **ad motlæting thessara tyma er ej verd theirrar dyrdar sem vid oss mun openber verda**. Theirre blessudu Zion: Tha vier sitium vid thann diupa daudans hil og horfum fram i hann/ eda siaum vora astvine so a sig komna/ huxum tha til theirrar Himnesku Zion, og horfum i trune uppa thann blessada Zions Kongenn Christum JESUM/ sem so hefur vel i veg fyrer oss bued/ **ad theim sem hann ottast/thiena aller hluter til hins besta**/ lyka **Daudenn** huorn hann hefur so deift og deidt/ ad hann **er orden oss einungis**
Phil. 1. **abinnyngur**/ og thar med stuttur stigur og vegur huorn vier gaungum thurrum fotum/ thad er fyrrer utan Smeck hans beiskleika/ inn i tha Himnesku Zions Borg/ alyka sem Israelis Syner geingu thurrum fotum yfer um Jordan inn i thad fyrer heit-

ra-

na land og endudu so syna armædusømu utlegdarreisu / Riett og vel er hier um ordt af theim sem so sagdi! Jos. 3. Phil. 4.

**Daudenn til Lyssens stutt er stig / storlega daudenn batar mig:**

Thvi skulum vier gledia os i Drottne alla Tyma / hvad sem hier ad høndum kiemur / og vorrar thacklætis Hørpur ofantaka / Drotten prysa og vegsama / i medlæti og motlæti / Sorg oa Gledi / seigiandi Ps. 116

**hvornenn skal jeg Drottne endurgiallda fyrer allar hans Velgiørder / thær ed hann veiter mier / thann heilsusama Kaleik skal eg medtaka og nafned Drottens Predika: Eg treiste thar uppa ad thu ert so miskunsamur / mitt hiarta gledur sig thad thu hialpar so giarnan / eg vil syngia Drottne / thviad hann giorer so vel til myn.** Ps. 13,

Wier siaum og heyrum nu i Dag thes Gllds Barna kiør/ adur aminst/ sem er ad syrgia og grata vid votnen i Babilon. Vor elskulegur Herra og andlegur Fader **Vel-Edla/ Vel-ehruverdugur og Ha-lærdur Herra: H. Einar Thor-steinsson**/ situr nu vid tha straungu Kro-ssens og motlætesens mædu/ sart Sorgandi og Kueinandi med synum Elskulegum Edla Bornum/ misser syns astkiæra Eckta hiarla/ og dyrmætu Medhialpar sem Glld haf-di honum giefed; nu veit jeg vel hañ seiger i synu hiarta med theim sæla Job;
Job. 1. **Drot-tenn gaf/ Drottenn burtok thad/ lofad sie Nafned Drottens.** Samt skulum vier giæta vorrar skilldu Glld ræ-kilega/ sem er fierst su ad samharma honum og hans Elsku Bornum/ thad utheimter Christelegur Kiærleike af ollum / ad **grata**
Rom. 12 **med Gratendum** / Lyka sameigenleg vilkior vor i thessum Heime/ thvi i Knollð

edur

edur a Morgun kann os thvilykt/ edur thyngra harma efni til ad falla/ Lyka er thad vor skillda/ hann og hans harmandi astvine ad hugga og hugsnølunar ad leita/ hvor efter synum mætti. Tha Jacob harmadi siñ Son Joseph / tha komu aller hans Syner og Dætur / og løgdu sig til at hugga hann thad var theirra skillda; so og Lyka er thad ad Soñu allra nalægra skillda/ ad samharma thessum vorum andlegum Fødur og hugga hann / enn hellst tho var hans heima Maña og thienara/ sem margt gott høfum af theirra hendi theiged/og a thessum sorgartyma Lyka miked mist; thar til skulum vier bruka hin bestu Medøl nu a thessari stundu. Fyrst audmuka Bæn til Drottens ad hañ/ i fra hvorium øll hialp og huggun kiemur / su sem a Jordu Skier villdi hann og hans harmandi Børnum himneska huggun senda med sætasta yndi og unadsemd i Sialfum sier. Hier til skulum vier eirnenn bruka thad blessada Ord Guds,

Gen. 37

Psal. 74.

 sem

sem er besti grædi Plastur allra vorra sorgar Sara og salarmeina / sem David vottar so seigiandi / **hefdi thitt løgmal**
Pf. 119. **Drottenn ej verid myn huggun / tha hefdi eg fyrer farest i minne Neid.** Thvi skal nu i trauste Drottens til yfer skodunar framsetiast / ein gledeleg grein Guds Orda / sem adrar fleiri heilnæmar og huggunarsamar ad sier dregur ut af Heilagri Ritnyngu / thad stadfestandi og vora Tru thar um stirckiande / ad vier aller sem i Drottne deyum / skulum safnast til theirrar Himnesku Zions Borgar / thar finnast / og med Ønd og Lykama blysa og Bua Eilyflega / Syngiande uppa Hørpur / GUds Loffsaung /
Ap. 15. Lambsens endalaust Sanctus og Haleluia.

Thetta vel umthenckt og i Trunne iduglega yferveiged / uppvekur og ørvar thann sanna Fognud / enn sefar og nidur setur Sorg og Trega / sem stendur af vorum eda vorra Elskulegra Anaudum og Dauda.

Oh thu dasamlegaste Dyrdarennar Kong-
ur

ur / sem i theirre Himnesku Zion Rædin og Ryker fra Eilyfd til Eilyfdar / alyt thu os i thinne Nad og blessa os hier saman-komna i thinu Nafne Oh Drotteñ hialpa thu/ Oh Drotteñ lattu thetta velluckast / send mier Talande / og øllum hier aheirande Hialp Heilags Anda / so thad min Veika Tunga talar fyrer hans tilhlutan / mætte koma Einføllдum til uppfrædingar/ Hrelld-um til Huggunar/ Efasømum til Truarstirk-ynaar/villtum til leidriettingar og oss øllum til Eilyfrar Sælu og Saluhiapar Amen.

Textus Job. CAP. 19.

Eg veit minn Endurlausn-are lifer / og Hann mun hier efter uppvekia mig af Jørdunne / og jeg mun sydar meir umgiefast med Thessu

mynu

mynu Hørunde/ og jeg mun sia GUD i mynu Hollde/ Thann hinn sama mun jeg sia fyrer mig/ og myn Augu munu lyta hann/ og eñ ecke eirn annarlegur.

## EXORDIUM.

Gen. 23. I Genesis Bokar 23 Cap. er ad lesa miøg merkelega Historiu um Forføduren Abraham og afgang hans Elskulegu Eckta-Qvinnu Saræ sem so er hliodande; Sara lifde hundrad siø og tuttugu Aar / og hun Andadest i einum Høfudstad sem hiet Hebron i Lan-de

de Canaan, Tha kom Abraham ad barma sier og grata hana / sydan stod hann upp fra hennar Liike / og talade vid Hets Sonu og sagde / giefed mier eirn eigenlegann Stad til Greftruar hier hia ydur / so jeg meige Greftra Thar miñ frammlidenn sem hier liggur fyrer mier / Tha svørudu Hets Syner og søgdu til hans / heir oss kiære Herra / Thu ert eirn GUds Høfdynge hier amedal vor / graf Thu Thinn frammlidenn hier i vorum Erligustum Grøfum / eingen af oss skal meina Thier syna Grøf etc. Tha sagde Abraham / ef Thad er yckar vilie / ad jeg meige Greftra hier minn

framlidna sem hier liggur fyrer mi-
er Tha bidied fyrer mig Ephron
Son Zoar, ad hañ vilie uña mi-
er / Theß tuøfallda hellers sem
liggur vid endann a hans Akri /
ad hann selie mier hann fyrer
Penynga / so mikla sem hann er
verdur a medal ydar til eins greft-
runar Eigendoms / Tha svaradi
Ephron, eg gief Thier hann i
valld / Eñ Abraham vog hønum
ut Penynga fyrer hann / Thad
voru 400. Silfurpenyngar gill
der og geinger i kaup / og so vard
Ephrons Akur / i hvorium sa tuø-
fallde Heller var / Thuert ifer fra
Mamre, Abraham stadfestur til
eignar med Hellernum sem Thar i
var

var. Efter Thad greftradi Abraham syna Oviñu Sara i Theim tuofallda Heller a Akrenum Thuert ifer fra Mamre, Thad er Hebron i Canaans Lande.

J Thessari Historiu er thad first athugande / hvad fyrer eirn Abraham var / og hvilyk persona / einkum i GUds auglite / hann hafdi miked alit hia Sonum Hets: Kiæri Herra / Thu ert eirn Guds Hofdynge hier a medal vor (sogdu Their) og Thad riettilega Thui hann var ypparlegur Aastvinur Drottens / Riettlatur Madur / hann trude Gudi og Thad reiknadest honum til Riettlætis. Gen. 15 Vt af Truñe syndi hañ hm̃ hlydne sem er hid besta offur: Epter GUds Befalnyngu for hann burt ur Haran synu fostur-Landi fra synu frændlide 1. Sam. 15.

og Syns Fødurs Huuse / i Thad okienda
Gen. 12 Land Canaan, hvadann hann vard Thar
efter ad flya fyrer miklu hallære / i Egyptem;
efter hans Befalnyngu / liet hañ Ambat-
Gen. 21 tena Agar med Synum og hennar syne /
burt ur synu Huse; efter GUds Befalnyn-
gu umskar hann sinn Son Ismael / og allt
Kallkins i synu Huuse / og yfer Hudena a
synu eigen holldi / Tha hann var nyu og
Gen: 18 nyutyer Ara gamall / a einum deige;
efter GUds Befalnyngu villde hann hafa
offrad og deidt sinn einka Son Isaach a
Fiallenu Moria.
Gen. 22. Fyrer soddañ hlydne hrosadi sialfur GUd
honum/seigiandi/ **Abraham var hly-
denn minne Roddu og vardveit-
ti myn Bodord / myn riettindi /
Gen. 26. mynarSkipaner/og mittLogmal:**
Fyrer soddan hans Tru og hlydne virdte
Drottenn hann miøg mikels / hann open-
beradist honum optlega og taladi vid hann/
Hann batt vid hann sinn Nadarsamlegañ
satt.

sattmala ad hann villde vera hans GUD og hans Sædis æfeñlega / og gaf hønum Thar uppa umskurnareñar Teikn. Gen. 17.

GUD gaf hønum eirn godann Vitnisburd / um truverduga skundan sinnar stiettar seigiandi : Jeg veit hann mun bioda Synum børnum ad vardveita vegu Drottens / og giøra hvad riett og gott er : Drotteñ openberadi hønum hulda hlute / sem var first for Eidsla Sodomæ, og sagdi / hvørnen ma jeg dylia fyrer Abraham Thad sem jeg vil giøra / med Thui hañ skal verda ad einu miklu og megtugu Folke / og allar Thioder a Jorduñe skulu blessast i hønum ; Gen. 18.

Hañ openberadi hønum / ad hans Sædi munde verda i okiendu Landi framande Thiast og plagast i 400 Aar: Firer bæn Abrahams vildi GUd Thirma Sodoma ef Thar Gen. 15.

Gen. 18. finduſt Io. Riettlater inne ; Hann bæn heirdi hann eirnenn um̃ Iſmael / og ſagdeſt vilia bleſſa han̄ / og auka hann / og giora han̄ miøg marg-
Gen. 17 falldan̄ : Hier a ofan̄ bleſſade Drotten̄ hann rykuglega med thui Tymanlega / ſo hann vard eirn Stormegtugur Madur / gaf hønum Naut og Saude / Silf-
Gen. 24 ur og Gull / Thræla og Ambatter ulfalda og Aſna ; Hann hafde under ſinne Hende Tiu Hundrud Huſ-karla ſem fædder voru i hans Hu-
Gen. 14. ſe / og bio Tha ut med Vopnum Enn Thad var Tho ej hid ſydſta af ollu Thui GUd veitte hønum ad han̄ ſa Dag Chriſti med mikillre Hiartans Glede / ſem
Joh. 8. Chriſtur vottar ſialfur.

Thad er i ańan̄ ſtad athugande i theſſari Hiſtoriu / ad Theſſum goda Guds Mañe giećk Tho ecke allt ad Oſkum / helldur tilfiell hønum

um neckud motbærelegt/ Thvi Ritnyngen vottar ad hans Heittelstada Husfru Sara hafe Andast 127. Aara Gømul i Landi Canaan og Theim Hofudstad Hebron. Hvad stort Sorgarefne Theim GUds Mañi hafe Thad vered/ Thad ma hvor Mann af Reinsluñe rada/ lyka af ordum Guds sem seigia ad **Madur og Qviña skule vera eitt** Hold; Thar fyrer/ so sem Thad stier Sart Tha Sticke ur Mannsens Holldi er burtkliped eda slited / so ma Thad sart Skiera Mannsens Hiarta/ Tha Daudenn burt kipper hans Eckta Qvinnu fra hønum/ einkum Theirri/ sem bædi er Gudi Theck og synum Ecktamanni/ sem Sara var: Ad hun hafe Gude Theck verid/ ma medal annars Thar af sia/ ad GUD syndi sinn dasamlega Krapt a henni / og liet hana **nyræda obyriu fæda Son**; Lyka er Thad Guds velthocknunar Mercke a heñi/ ad H. Ande hefur i Ritnyngunne uppteikna lated hennar alldur / andlats Stad/ eirneñ

Gen. 2.

Gen. 18

eirnenn ypparlega Jardan / hvad allt hefur af Guds Forsia skied og framfared vid hana : Hun var Abraham undergiefen/ hlyden og epterlat / **hun kalladi hann sinn Herra:** Thegar hann baud henni
1. Petr. 3. ad matreida fyrer Tha Thria blessada gieste sem sokttu hann heim i Mamre, Tha giordi hun Thad med mesta flyter an undandrat-
Gen. 18. tar. J soddan undergiefni og hlydne vid hann/ hefur hun afram hallded inn til syns dauda/ og ma vel skie H: Ande tilkinne Thad med nafne Thess stadar i hvørium hun andadest / Thui Hebron utlegst Societas, Thad er eindrægne og samhelldi; Thetta tilfiell Theim sæla Abraham / so Thad sannast ad **Guds Thionustumadur ma**
Syr: 2. **buast vid freistne.** Enn huørnenn medtok nu Abraham GUds Madur Thenann motgang og kross/ og huørnenn stickadi hann sier ? First seiger Textenn/ **Tha kom Abraham og barmadi sier**

og

og griet hana: Their a gamla Testamentesens Tyma hofdu vissa Taara daga tolu / sierhuor Thiod fyrer sig Tha Their hormudu syna framlidna / Egiptsker hormudu i 70. Daga epter Tha Daudu. Syrach sem var Gydingakyns seiger; sio Daga bera menn harm epter hinn Dauda/ Eñ hvad marga daga Abraham hafe harmad/ er mier ovyst/ hitt er acktandi huilykur hans harmur hafe vered. Gen. 50 Syr. 22.

Firsthefur Thad vered medaumkunar gratur yfer mañlegre Eimd. Thad er almennilega nog harma efne / ad horfa a Thad og heyra Thad/ vita og reina ad Madurenn med GUds hende mindadur og smydadur! Efter Guds mind Skapadur: Ja til Eilyfs Lyfs Skapadur: hann hlytur fyrer daudann (sem diofulsens ofund Job. 10. Gen. 1. Sap. 2.

iñleiddi i Heimenn ) ad forganga sem annad ulded hræ / og sem Thad Klæ-
Job. 13. di sem Molurenn uppetur / og i Beina Husenu ad seigia til Fu-
ans / Thu ert minn Fader / og Madkaña / myn Moder og myn
Job 30. og 17 Cap. Syster.

Thar næst var Thad astar og elsku gratur: Misser Thess hlutar sem Madur heitt elskar færer med sier Thaar og trega; huad sart griet David efter Jona-
than falleñ / Thad bevysar sa Bogie sem hann ordte epter hann: Tha Michol var
2.Sam. 1 lifandi burttekeñ fra synum Mañe Pal-
thiel / syne Lais / Tha gieck hann med heñi gratande allt til Bahurim; Thui
2.Sam.3 var Thad eingen undur / Tho elska Abra-
hams til sinnar Qvinnu knyde hann til ad grata.

J Thridiamata var Thad fagna-

nadar og gledi gratur; Thui Lykur var gratur Jacobs Tha hann sa Joseph i sinne Vegsemd / og tok hann i sinn Fadm: Thui sa Riett truade Madur Abraham griet ej syna Qvinnu so sem van truader Their sem aungva von hafa/ helldur huggadi hann sig vid fullvissu upprisunnar so sem hinn H. Job og adrer riett truader: Og lyka sem hann trude ad GUD sem lofadi ad margfallda hans Sæ di sem Stiørnur Himens/ være mattugur ad uppvekia og lyfga sinn Son aptur Tho hann offradi hønum efter hans Byfalnyngu; So trude hann ad GUd munde Thessa syna Qviñu a sydasta Deige uppvekia og sier aptur giefa / Thui giemdi hañ mata ad grata / og stod upp fra heñar Lyke/ og keipte eitt Akurland ad Ephron syne Zoar i huoriu var tuøfalldur Heller fyrer 400 Sil-

Gen. 46.

1. Thess. 4.

Gen. 15

furpenynga : Epter Thad grep-tradi Abraham syna Q.vinu Sa-ra/ i Theim tuofallda Heller a A-krenum / Thuert yfer fra Mam-re / Thad er Hebron i Canaans Lande: Um Thennan Heller herma so lærder Menn epter sialfum Judum/ ad hann seigest tuofalldur Thess vegna / ad hañ hafi leiged sem i bugt eda krok / og haft Dir a huoriū enda / so mann hafe matt gan-ga inn uñ Thær einu Dirnar / enn ut uñ adrar / ur huoriu Hellersens forme Their hafa smydad andlega Thydyng uppa Guds Barna Grafer / i truarennar Tillite tui-dyradar / ad Thaug ganga fyrer Daudann iñ i Thær / sem uñ einar dimmar Dyr / eñ ut uñ adrar fagrar og forprydelegar fyrer upprisu dyrdarennar / huor samlykyng edur Thydyng vel kiemur saman vid Tha gull-vægu Tru Abrahams uñ upprisuna / med huorri hann tempradi sinn Harm / og grep-tradi i Gudi gladur sinn framlidenn.

Thetta

Thetta Sorgar efne sem Abraham tilstell hier / hefur Lyka tilfalled my Morgum Abrahams Bornum / ecki einasta epter holldenu fæddum / sem hans Sonar Syne Jacob / Tha Daudenn adskildi hann / og hans Heittelskudu Rachel / **hvoria hann leinge tregade** / helldur og eirnenn tilfellur Thad **hans Bornum epter andanum fæddum** Thad eru Their sem eru af Abrahams Tru / **hvor ad er allra vor Fader.** Gen. 35. Gal. 4. Rom. 4.

Thar uppa hofum vier dæmi i Dag augliost fyrer vorum augum a Elskulegum Thion Drottens / og andlegum Abrahams Syne **Vel-Edla Vel-Eruverdugum og Halærdum Herra** / vorum Elskulegum og andlegum Fodur / **Herra Einare Thorsteinssyne** / Thar su **Edla Ehrugofuga Gudhrædda og Dygdumprydda Sara** / Thad er

Domina Thessa hefdar Heimilis/hans heitt-elskada Eckta Hiarta / **sem firer epter breitnena matte vel Saræ Dotter heita** / er fyrer tymanlegañ afgang
1.Pet.3, ( Tho fyrer Guds Nad farsælann og hægan) burt fra honum numen / so hann ma vel seigia / asamt Børnunum / liosed minna augna / (Thad er Gleden og unadsemden) er burtu fra mier / Thui hefur hann sydann barmad sier og harmad / med synum epterblyfandi Børnum sargrætelega / sem eñ nu sia ma / eins og sa gode Abraham: Sa sæte JEsus sem so villde giøra og lata vera / sie hans huggun og harmabot: Thar næst hefur hann greptrad (lyka sem Abraham) sinn sæla og blessada framlideñ fyrer hønd Thessa somalega Selskapar / og goda Folcks / vel og heidarlega i Thessu Guds Huuse / og tvofølldum Heller (so ad seigia) Thad er i Grøfeñi: Thui so sem Thessi blessadi lykame innleiddest nu um dmmar Dyr fyrer vorum sionum i Thetta sitt svefn Hus / so

utgein-

utgeingur hann Thadan um̄ adrar fagrar dyr / liomandi og skynandi / til Theß Eilyfa Lyssens a sydasta Deige. I Thessari Tru og von hefur hann nu lated hier um̄ hennar blessud Bein so bua / sem Thier nu sied hafed: I Theirri tru og Von lifde og deyde hun sialf / Thetta Edla astudlega Guds Barn / lyka sem sa sæle Job / hvors Bok hun i lyfenu elskadi miog og ydkadi. hvar fyrer Thessi H: Texti sem upplesenn var er hennar Greptrunar Deige tileinkadur. Enn adur vier heirum̄ hans einfallda utskyryng / skulum vier lia vor eyru / til ad heyra hennar loflega Lyfsøgu / Drottne til dyrdar / Astvinunum̄ til hugsuolunar / og oß ollum̄ til fagrar fyrermindar i Lyfernenu.

# Lyfs Historian.

Vrov. 1. seiger hinn viise Salomon / listelegur og fagur ad vera er eckert / eina Qvinnu

sem

sem ottast Drottenn skullu menn lofa.

Vyst hefur Fegurd og frydleike Thocknast augum̃ Salomonis sem annara Manna/ Thui ma Thad undarlegt Thykia i Snoggvu alite/ ad Thar sem Salomon i Thessum̃ Capitula og vydar i sømu Bok upptelur og prysar Dygder Qvennanna leggur hañ eckert Lof a Theirra frydleik / huørki hier nie Thar / enn Thad er ecki so af honum̃ meint / ad fegurd og frydleike skule ej acktast fyrer GUds Gafu / hvørre Ritnyngen vyda hrosar a Theim Gudhræddu Qviñum/ sem Abigael/ Rebecca/ Ester/ Sara. Enn Thad er hans Meinyng / ad mots vid adrar dygder sem Salena og iñra Mannenn einkum pryda / og til Saluhialparennar stoda/ vegur frydleikin lyted / edur eckert: Ja / eirnenn a medal Theirra ytri Lykamans giæda / ma hann vel seinast sitia ; Hañ er huerfur og ecki varanlegur / missest Tha minst varer / fyrer atviku leise og Braud/

skort/

skort / Sotter og Vanheilsu / Abiggiu og Onæde / enn endelega og ad øllu leite fyrer Daudañ / og Tho Thessi Gafa være varanleg Tha er Thvi so vared / ad margur hefur vegna sins Frydleiks i vanda komed / fyrer vondra Manna Øfund og illa Listyng sem Joseph / Dina / Susanna / Sara / Rebecca / lika hefur margur vanbrukad Asialeikañ til Drambsemi og Lauslætis sem Absalon og Jessabel: Thvi vill Salomon / ad Frydleiknum fyrer by geingnum yfer allt fram / losa Thær Qvinnur / og losa lata / sem ottast Drotteñ / Thvi Thetta er eirnrar Qvinnu ypparlegasta Skart / Gulle og Perlum dyrmætara og Thar sem Thad finst / næger nog / Tho onnur utvortis giædi vante / Fie og fegurd / og Thessu lykt / Thvi so sem Otte Drottens er upphaf Visdunnar / so er hañ Rot og Brunnur allra añara Dygda / Thvi sa sem ottast Drotten fordast hid vonda eñ giører hid goda af mesta megni og mætti / Thvi Otti Drottens ver Syndenni / ja Otte Drottens er

Gen. 12
Gen. 26
2Reg. 9
Syr. 26
Syr. 1.

E Su

su Vitska sem audgar / og allt gott med sier færer (ibidem): Thvilykar Qvinnur vill H. Ande lata lofa / og Tho nockur villdi yfer Theirra lofe Theigia / og Thvi nidurthrickia / Tha hafa Thær Tho sin lofstyr hia Drottne.

A medal Theirra Qvenna sem i Thvilykann mata hafa lof og prys forthienad / er med fullum og øllum sanne teljandi / su Edla Ehrugøfuga og Gudhrædda Høfdyngs Matrona INGEBJØRG GYSLA DOTTER / nu i JEsu synum Elskhuga og Endurlausnara / sætt og farsællega burtsofnud / hvorrar framliden Lykama Thessi Prydelega Lykfilgd hefur nu i Thessu Heilaga Huse / med allre Æru og Virdyng / lagt til syns Hvyldarstadar. Hun var Thessare dygd og andlega Qvenn-Skarte (Otta Drottens) af H. Anda Prydd og begafud / J Otta Otta Drottens lifde hun: J Otta Drottens Framgieck hun / og J Otta Drottens Deyde hun. Syrach seiger ad aungvan skule lofa fyrer sitt

Enda-

Endadægnr / hennar Endadægur er nu komed epter GUds bleſſudum Vilia og Vysdoms Raade / Thar fyrer tilſtilldar oſs Tymen ad lofa hana / (ſem Salomon ad orde kiemſt) Thad er / mīnaſt hennar prydelegrar og loflegrar hierviſtar medal vor a Jordunne / og Theirra dyrmætu Dygda ſem Drottenn hafde hana medprydt og begafad hønum Giafaranum til Æru og Thacklætis / Aſtvinunum til Hugſvølunar og Harmabotar / og øllum uti fra til godrar fyrermindar og eptertektar. Syr. 11.

J ſierhvors Mans lyfs Hiſtoriu er thrent athugande og yferſtodande. Firſt / Inngangur Lyffsens / edur Ætt og Vpprune.

J aňann mata / Framgangur Lyffsens / edur hegdan og frammferde.

J Thridia mata / Utgangur Lyffsens / Thad er Æfeloken og Andlated.

Allt Thetta Thrent er Glede / Sæmd og Æru ummvafed og Coronad i Lyfs Hiſtoriu Theſsa Edla og Elſtulega Guds Barns og unnuſtu JEſu Chriſti / ſem vier ſkulum

Frammveigis fa ad heira epter Thierri tyd og hentugleika sem nu fyrer hendi er.

J fyrstu skulum vier vita ad Thessi Edla Ehrugøfuga og Gudhrædda Høfdyngs Matrona Jngebiørg Mysla-Dotter / (nu J eilyfu lyfe sigre hrosandi) er fædd og boren i Thennann heim ad Bergstødumm i Svartardal i Hunavatns Thynge / Tha liden voru fra Frelsarans Fædyng 1642 Aar / Thañ 21. Junii. af Eruverdugum̃ og Heidurlegum̃ Forelldrum̃ / ad ætt og atgiørfve / Thar og vydar Nafnfrægum̃.

Heñar Fader var sa Heidurlege og Eruverduge Kieñemann Sr. Gysle Brinolfsson / Soknar Prestur til firrnefndrar Bergstadar Kyrkiu.

Heñar Moder var su Gøfuga og Virdulega Matrona Sesselia Grymsdotter / ad Gudhrædslu og mørgum̃ kueñlegum̃ Dygdum̃ Nafnkuñug.

Nu sem GUD hafdi milldelega blessad heñar Erugøfugu Forelldra med Luckusamlegri fædyngu Thessarar Siñar ungu Dottur /

tur/ Thalietu Thaug sier first og fremst um̃ hugad vera/ ad offra hana og giefa sialfum̃ Giafaranum lifanda Gude/ fyrer Thad haverduga Sacramentum̃/ Endurgietnyngareñar/ Heilaga Skyrn/ hvar med hun iñtokst i Nadarennar sattmala/ og iñplantadest HErranum̃ JEsu Christo til eins heilags Lims/ a hans Andlegum̃ Lykama sem er Christelegur Søfnudur/ sydan var hun med allre/kostgiæfne aleñ og uppfrædd af synum̃ Elskulegum Forelldrum i soñum Guds otta/ og i allra losflegra dygda og Kvennkosta ydkan; GUd hafdi og begafad hana med godri Natturu og lostugri tilhneigyngu/ asamt skinsemd og Vitsmunum / Thad gott epter ad hafa og hugfesta/ sem heñi var kient og undervysad.

Thegar hun var nu nockud vaxen og til Aara komen/ komu heñar Ehrugofugu Forelldrar heñi i kienslu til Reine Stadar Closturs/ under Hønd Theirra Sal. Hofdyngs Hiona/ Benedicts Halldorssonar og Joruñar Henricks Dottur/ hvar hun

dualdi um̃ tuo vetur/ kurteyse og Kueñlegar Menter Kostgiæfelega stundandi / synum̃ yfermoñum̃ og øllum uti fra Theck og giedfelld i allri sinne um̃giengne : Thar efter var hun heima hia synum̃ elskulegum Forelldrum allt til tuttugasta og añars Aars syns Alldurs/ a huoriu hun epter Fodurlegum Vilia og Forsia Drottens/ gaf sig til Heilagrar Hionabands Stiettar med Vel-Edla/ Vel-Ehruverdugum/ og Halærdum Herra/ Hr. Einare Thorsteinssyne Superintendente Hola Stiftis/ huor Thann Tyd var Soknar Prestur ad Mula Stad i Thyng-Eyar Syslu: Theirra Trulofun skiede Anno Christi 1664 Thann 10 dag Maii.

A sama Aare var Theirra Brudkaup Somasamlega hallded i margra godra og ypparlegra Maña vidurvist a heñar Fødurs Garde Thañ 25 Septembris: Sydañ reistu Thaug Heim til Mula Stadar hvar Thaug hielldu goda og prydelega sambud i 27 Aar.

A Thessum Tyma liet GUD Thad a

Theim

Theim sannast sem David seiger / Drotteñ veyti Theim sem hann ottast / Thyn Hus-fru mun vera sem avaxtarsamur Vyn-Vid-ur umhverfis Thitt Hus: Thvi Thessa Theirra Hiuskapar Stiett blessadi Drotteñ og prydde med Barneigneñe / giefandi Theim til samans 15 Børn / af hvørium 4ur eru i Gude sætlega burt sofnud / og i Ei-lysa Sælu inngeingen / ur Anaudum Thessa Lyfs / eñ Ellefu eru eñ nu a Lyfe / siø Syner og fiorar Dætur / hvør øll / Thaug hafa med pryde og sooma i Otta Drottens uppaled. Ps. 128.

Theirra ellsti elsku Sonur er Heidurlegur og vellærdur Kieñemann Sr. Gysle Einars Son / Soknar Prestur til Mula Kyrkiu i Thyngeyar Syslu / i Boklegum lystum / utañ Lands og innañ vel idkadur.

Honum næstur ad Alldri / er Vys og Virduglegur Høfdyngs Mañ Sigurdur Einarson / sem nu hefur i 3 Aar Domkirkiun-nar Radsmadur vered / og Thvi Embætte forstanduglega framfilgt / med hægd og Hog-

hogværd vid meire Meñ og minne.

Thridie Theirra elsku Sonur / er Vys og Virduglegur Høfdyngs Mañ Nicholas Einarsson / utanlands og iñañ vel drifeñ og forframadur. Vm̃ alla hina Ingri er hin besta Von.

Allar Theirra Høfdyngs Hiona Elskulegar Dætur / audsyna Thad med sinne prydelegri hegdun og fram̃ferde / hvør epter synum Alldre og Throska ad Thær vilia Kappkosta / i sinnar blessudu Modur Dygda Fotspor ad feta / hvartil Gud virdest Thær Nadarsamlega at stirkia. Øll eru Thaug godum Gafum af Gude prydd / hafa og hlydeñ vered synum Forelldrum epter Thvi fiorda Bodorde / hvar um̃ Theirra blessada i Gude burtsofnada elsku Moder / bar Theim Vitne / optar eñ eitt sinn mier aheirande / hvar fyrer Thaug munu vissulega verda blessunarennar fyrerheitis hluttakande; Soddañ Born eru Gafa GUds.

Vm̃framm Thetta blessade Drottenn Thaug miøg rykuglega i synum Hiuskap / med

med Lykamlegri Audlegd og Brauds nægd/ hvørrar Theirra Blessunar hluttakande urdu / fyrer Theirra millda og ørlata Hønd / Giester og gangande / Ryker og Fatæker / hvorier Thad hafa med godum Lofstyr og Hrosan / auglyst og asannast lated/ sem øllum nalægum mun vitanlegt vera.

Ofañ a Thetta gladde og prydde GUd hana med æru og upphefd syns elskulega Eckta Hiarta / Thar hann var stickadur og settur epter GUds Vysdoms Rade af Kongl. Majst. Byskup/ og Superintendens Thessa Hola= Stiptis: Hafa Thaug nu seted og samañbued hier a Stolnum med soma og pryde i næst um̃liden Thriu Aar.

Thessu næst er Thad vel yfervegande hvornenn Thetta Edla og Elskulega Guds Barn breittei sinne Stiett og Husmodur= stande sem er i allañ mata vel og Heidurlega/ med godre og prydelegri um̃geingne leint og liost / Thar um̃ ma jeg vitne bera / a= sampt ødrum̃ er sañleikeñ vilia seigia /

epter Thuisem jeg hefi heirt og merkt/ einkum thesse 3. Aar/ um̃ huor jeg hefi theirra Hofdyngs-Hiona veikur thienari vered.

First vid sinn GUd breitte hun soleidis/ ad hun elskadi hans Ord og hafdi syna Lysting i hans Løgmale: hun idkadi sig i bæna akallenu/ biriadi sierhuorn dag med bænenñe og endadi lyka med bænenni/ rækte GUds Hus og Kyrckiuna kostgiæfelega / bædi synt og heilagt; Hun vandadi syna framgaungu/ og daglega umgeingne til orda og verka/ sem sa/ er Guds Ande leider/ og lætur ord Drottens vera lios a synum vegum.

Pſ. 1.

Pſ. 119.

J añañ mata vid sinn Eckta Herra breitte hun ypparlega og astudlega i allann mata / og var honum undergiefen so sem Drottne/ thui hun visse og aleit thad ad hañ var sitt høfud/ Lyka sem Christur er Safnadarens: Hun stundadi epter ad eida og afvenda ollu hans angre/ enn efla og auka hans Gledi og unadsemd.

Epheſ. 5.

J

I thridia mata / vid Børnen syn breitte hun sem ein Gudhrædd Dygdaryk Moder/ hrør ecki kañ ad forgleima Avexti syns Lyfs: hun ol thaug upp i Aga og um̃ vøndun til Drottens / hun aminti thaug idulega til Gudræknennar med Ordunum / enn gieck i heñi fyrer theim med epterdæmunum bædi heima i Husunum og so i Kyrkiuñe. Es. 49. Eph. 6.

I fiorda mata / Synum undergiefnum i Husenu stiornadi hun / Gudrækilega / skinsamlega / og hogværlega / og thar sem hun ordsakadest til nockrar um̃ vondunar/ tha skiedi hun med stærstu hægd og hogværdar giedi / an reidi og storirda i Suñu ad seigia/ hun hiellt eitt med synum̃ Elskulegum̃ Eckta Herra i Guds otta/ kiærleikanum/og Thar ad hlydandi godum verkum.

Thetta er eitt af theim thremur hlutum sem Syrach seiger miog fagra ad vera / sem er tha Madur og Kona vel forlykast / i theim stad hefur Drottenn fyrer heited Lyfenu og Blessaneñi um̃ alldur og æfe: Thad saña- Ps. 113.

dist a thessum Hofdyngs Hionum i theirra sambud/ thui Drottenn tillagde theim blessan og audlegdar Lan/ bæde tha thaug satu a Mula Stad/ og lyka hier / auk thess sem Drottenn giørdi hana Erfyngia og Eiganda alls syns Forelldra godts/ ad burt køllu-dum hennar Elskulegum Brædrum/ soddan ein Dygda Qvinna kiemur af GUde.

Nu tho Drottenn veitti heñi stora upp-hefd med Lykamlegri blessan og lucku lane/ samt var hun ecki an kroßburdar og mot-lætiß a sinne hier vistar tyd / thui hun var GUds Elskulegt Barn/ eñ ecki hia Barn/ so thad sannadest a henni sem Eingellenn sagde vid Tobiam, first thu varst Gudi kiær/ Tha hlaut Thad so ad skie / ad fyrer utañ freistne matter thu ey vera / so thu yrder reindur / thui fyrer utañ tha mædu og thianyng sem Barnburdureñ og Embættiß thungenn med sier færdi/ tilfiell henni lykamleaur o-hraustleike og veikleike/ a efra hluta siñar æfe/ huørn Guds Kroß hun medtok og bar/ med thydu giedi og tholenmædi; og Tho hun

Tob. 12

so

so hliti ad sitia i mirkre motlætesens / samt liet hun sitt Lios Lysa fyrer mønunum / so their sau hennar godverk. Matth5

Maklega hlyddi henni su samlykyng sem hinn vyse Syrach brukar / thar hann vill utmala eina ypparlega Eckta Qvinu / so seigiandi / lyka sem Solen tha hun kiemur upp a haum Himne Drottens / er ein Pryde / lyka so er ein Dygdasøm Kona pryde i synu Huse: Thui lyka sem Solen utstrialar synum geislum um verølldena / gledur thar med og endurnærer allar skiepnur / epter Gudlegri stickan: So matti thetta blessada Guds barn / reiknast ein føgur Sol i synu Huse / glediandi alla med geislum sina dygda og godra verka. Syr. 26.

1. First gaf hun af sier geisla Gudræknennar / hun ottadest og elskadi Drottenn Gud sinn / hafdi kløckt og kramed Hiarta fyrer hønum / bædi i synum Skriptarmalum / i synum daglegum Bænum og under Gllds Orda heirn; Hun hafdi i Virdyngu hans Ords Thienara; mier hinum audvirdeleg-

asta a medal theirra / giordi hun margt og miked til Goda / og synde Jafnan astudlegt gied og modurlega ad hiukrun / hvad GUD late alldrei gleimt vera / huors hun liet mig overdugan adniota.

2. Hun utstrialadi geisla skyrlyfesens / Hiona Sængeñe med æru og trigd hreirnre

Heb. 13 halldande: og sig flecklausa geimandi fra thes-

Jac. 1. sum Heime.

3. Hun gaf af sier Geisla Lytelætesens / thui tho GUd setti hana hatt / og tillegdi henni sitt Lan og Gafur / samt metnadest hun ej, eda stærdi sig thar af / helldur var hun liuf og lytelat vid huorn Mañ epter Syrachs radum

Syr. 3. 13. Cap: Thess hærri thu ert / lytelæcka thig thui meir / og mun GUd thier hollur vera.

4. Lyste hun firer Geisla tholenmædeñar / thui hun bar sinn allann Embættis thunga / og allann kross og motgang heimuglegañ og openberlegann / sem henni ad hondum kom firr og sydar med heilagri tholenmæ-

Ps. 73. di / seigiandi opt med hinum sæla David nær ad eins jeg hefi thig Drottenn / tha hir-

de

de jeg ej um Himen nie Jord/ tho eirnen mitt Lyf og Sala vanmegnest/ tha ertu Drotten sami sem adur mitt Hiartans Hlutskipte.

5. Fimte hennar fagur Geisle/ var Forstaleiken / hun var ein god forstodu Kona i synu Huse/ hun handtieradi vll og Lin/ og erfidade giarnan med synum Hondum/ og huor hennar utmalan vill hafa/ i soddan falle/ hann ma lesa Prov. 31. Cap.

6. Utstrialadi hun Geisla Ølldsthacka giordañ a / fatækum og thurfandi til handa vid tha var hun Jafnan milld og medaumkunar søm/ huar hun sa tha/eda heirdi theirra gieted / og ongvañ liet hun voladañ siniande fra sier fara/ sem Hana bad/ thui eru vissulega hennar Bæner og Ølmusu giørder uppstignar til miñiss fyrer Gudi. Act. 10.

7. Siøunde heñar dygda Geisle var hogværd og fridseme thui hun kappkostadi ad hafa Frid vid alla meñ / og gaf eckert ofridar efne/ helldur hvar thad a horfdest eda merktest a Heimelenu og añarstadar/ thar hennar god ord tilnadu/ kappkostadi hun thad

thad ad afma og uppræta / med hogværum ordum og heilnæmum̃ Radum: Thetta hid sama er obrigdult einkieñi Guds Barna epter sialfs Christi Ordum̃ / sæler eru frid samer thui their munu Guds Børn kal-
Matth. 5 lader verda.

8. Gaf thesse Solen af sier thann forkostulega Kiærleikans Geisla / sem utstrialadest almeñilega til allra: Hun elskadi siñ Ecta Herra sem sialfa sig so leinge hun lifde / hun elskadi syn Børn sem hold af synu Hollde / og Bein af synum Beinum / hun elskadi syna Ættyngia / og var theim til adstodar: Hun elskadi Fatæka og aleit theirra naudsyniar; Hun elskadi syna Thienara og var theim til lidsemdar; hun elskadi Veika og Gamla / og var theim til hiukrunar; Hun elskadi thaug ungu Bornen / og hiellt theim under heilaga skyrn / lyka vel theim fatækustu / hvoriu uppbirindu / hun lytelatlega afram hiellt / i synu hædsta æruſtandi; thar ad auke gaf hun theim ungu Bornum og gior-
Matth. 18 de theim margt til goda / thui hnyga til hennar

nar orden Christi/ hvør hann medtekur eitt thuilykt ungmenni i mynu Nafne/ sa medtekur mig. Matt,18

Fyrer slyka syna Dygda Geisla/ var hun ein mikel pryde ecki einasta i synu Huse/ helldur og eirneñ i GUds Huse/ sem er søfnuduren: Eñ GUD naade; nu hefur thad dockva Daudans sky/ huled thessa fogru Sol fyrer vorum̃ sionum̃/ og burtteked hana fra vorum Augum̃: Thar fyrer/ lyka sem allar skiepnur/ so sem sakna theirrar natturlegu Solar/ og dapraft vid/ Tha hun er af skuke edur Thoku hulen; so meiga eirneñ/ ecki einasta Astvinerner/ helldur aller a thessu Søfuga Heimile/ og adrer uti fra/ maklega sakna thessa blessada GUds Barns/ og sirgia siñ mikla Misser/ eñ hugga sig tho vid Thad/ ad hun er af øllum̃ Sorgum frials og fry/ hafandi gnogt fagnadarens / og gledilegt Lyf til Guds hægri Handar. Ps. 16.

Nu er epter ad sia hiñ sydasta Parten / heñar hiervistar Historiu/ hliodandi um hennar blessada Burtfør og hvornen hun bio

sig til siñar heimferdar i Thad Himnesta Fødurland.

Hun kiendi first Thessa Siukdoms / ur hvørium Drottenn burtkalladi hana Anno 1694. a Kindelmessu / epter sem jeg hefi fornumed / hvør Sydan vid hana hiellst / Tho i bærilegra mata / eñ nu a thessu næst umlidnu hauste / for sa Siukdomur vaxandi / og magnadest meir og meir / sierdeiliss epter Joleñ / so hun gat stundum miøg litla / stundum øngva Fædu til syn teked / og ecki an storrar thianyngar vid Sængena stiled / hvad Tho stiedi optast nær / utañ a theim seinustu døgum heñar hiervistar / og Tha adspurt var huørt hana lysti ej til thess edur Thess matarkyns / suaradi hun / mig langar ej til nockurs hlutar / nema til myns Guds: Under Thessum synum thunga krosse var hun Tho Jafnañ tholeñmod / og mogladi alldrej i mote synum Gudi / nie efadi neitt um hans Nadar fyrer heit; hun bleif stødug i Bæn og akalli til Drottens / og las i sine Bænabok / Kuolld og Morgna / sem heñar daglegur Va-

ne

ne var / og Tha hun gat Thad ej sialf / liet hun thad adra giøra: So liet hun thennan siñ Siukdoms Tyma / vera siñ tilbunyngs Tyma / burt ur Thessum heime / vid huørri siñe Burtfør hun biost / sem næsta nalægri / thui iduglega heirdest soddañ Andvarpan til heñar: Hvad leinge skal Thrællen threia? Eirneñ adur eñ thessi hennar Siukdomur magnadest / og seint i firra sumar sagdi hun vid mig / ad hun hefdi bendyng feinged thar um / ad syner Lyfdagar mundu iñañ skams enda taka. Og so sem Thad hun biost iduglega vid siñe Burtfør a sottar Sængeñi / so ville hun øngvanveigen forsma / thad blessada Veganesti GUds Barna / Kuølldmaltyd Jesu Christi / huøria hun medtok skomu fyrer sitt andlat thañ 23. Maii / med sañri Audmykt og idrandi Hiarta fyrer GUdi / i riettri Tru / og befol sig so med Lyfe og Salu / GUds godum Vilia / og i syns Frelsara JEsu Christi Fadm og Forsia.

A fimtudags Qvollded / adur Drottenn burtkalladi hana sem var sa 6 Junii / var

 hen-

heñar Elskulegur Eckta Herra vid hennar Sæng / sem endrarnær / repeterande fyrer heñi thær hellstu / og huggunarsamlegustu greiner Christelegrar Truar med mørgum føgrum̃ ordum̃ og fortølum̃ / hvad allt hun skinsamlega medtok og Jatadi / og tha hañ endadi syna rædu i thad siñ vid hana / heirda jeg hun sagdi / jeg veit mier eckert añad til Saluhialpar / eñ JESUM Christum thañ Krossfesta: vpp fra thessu mynkadi meir og meir mattur Lykamans Tho vidhiellt Kraptur Drottens heñar iñra Mañe heilum̃ og hraustum̃ / lyka heñar skinsemi / Sion / Heirn og Malę / allt til andlatsens / og a theirri sydustu Nottu fyrer heñar andlat heirdu their sem hia heñi vøktu / ad hun mællti fram̃ Thañ Psalm i huøriu m̃ Thetta Vers er.

# Sæte JESU thu siert hia mier / Sal myna fel jeg i Hendur Thier / Sañleikans GUD Thu Grædder mig / Giafareñ Lyfs jeg kalla a Thig.

Vm

Um Morguneñ epter/ sem var laugardagsens taladi hun eñ med allri rænu vid tha sem nalæger voru/ og spurdi medal añars huar siñ elskulege Herra Byskupeñ væri/ huør tha samstundis til heñar kom; thar nokrum Tyma epter/ Tha hun hafdi sem sagt er/ tilbued sig i Hendur Drottens/ og sitt astkiæra Eckta Hiarta iñelega kuødt/ eirnen syn elskuleg Børn/ sofnade hun sætt og fridsamlega i synum Endurlausnara JEsu/ med einu hægu og æstelegu andlate/ med huoriu under eins endadest/ eñ ej firri/ Mal og syn/ Heirn og Ræna.

Thetta skiedi thañ 8 Junii a mille Hadeigiss og Dagmala Ao. Christi 1695. a Aare heñar Alldurs/ 53: Tha hun hafdi i heilogu Hiona bandi samañbued vid siñ elskulega Eckta Herra/ 31 Aar. Nu lifer hun hia Lambsens Stol/ lioмar ætyd sem skiæra Sol.

Blessud sie heñar miñyng Eilyflega medal utvaldra Drottens / lofadur sie GUD sem hana fyrer siñ Anda i lyfenu Leidde / lofadur sie GUD sem hana so forsællega og

gledilega vid thessa auma lyfs Eimder skilldi/ og hennar blessudu Salu i sitt dyrdarryke innleiddi/ begafada oforgeingelegri dyrdarennar Coronu framme fyrer Lambsens Stole: Gud Nadarennar/ GUD allrar huggunar/ sendi nu og inngiefi hennar sart harmandi Eckta Herra vorum Vel-Ehruverduga andlega Fodur/ og ollum harmande hiortum epter Thetta blessada GUds Barn/ Himneska huggun og hugsuolun/ og grædi theirra Sorgar Sar med synum giæsku og Nadar Plastri: Sa Loflege Herra lætur nu Thacka aludlega ollum godum Monnum/ sem hans sæla framlidna hafa til Æru og Thienustu vered/ a Thessum hennar greptrunar deige/ oskandi theim lucku og blessunar fyrer Lyf og Sal/ og ad endalokunum blessadrar burtfarar af thessum Heime.

Nu mun Tyd ad vier komum til Textans yfer skodunar ad tractera med tilbærilegri Andagt/ og athugasemi thessa dyrdlegu Truar Jatnyng thess Riettlata Jobs um upprisu syns Holldz.

Sa blessadi sañleikans Ande sem thañ sæla Job/ sañri og Saluhialplegri Tru begafadi / og Thessi sañleiksens Ord i hans Muñ lagdi af Trukе framfliotandi/ hañ leggi oss nu sitt Nadar lid og leidi oss eirneñ i allañ sañleik hier adhnygandi/ og giefi oss hønum i stødugri Tru stadfastlega ad hallda / med Frid og Fegnud salar og samvitsku i Lyfe og Dauda Amen.

## Textus Exegesis.

Hinum Heilaga Hieronymo er eignud Sofelld Sogn / og ma merkeleg virdast/ ad eingeñ hafe berlegar og lioslegar talad um̃ holldsins vpprisu af theim sem voru epter Christi-Holldgan/ eñ Job sem var fyrer hana / thad saña thesse hans uppleseñ Ord/ samañboreñ vid hiña sem vier hofum̃ i Heilagri Ritnyngu/ hans Ord eru lios vottur thar um̃/ huørsu hañ hefur fyrer heilagañ Anda dasamlega grundvalladur vered i theim saluhialplega og huggunarryka sañleika upprisuñar/ huørn sa gamle lygari

gari og sañleikans Ovinur/ Sathan/ hefur alltyd kapp kostad ad nidurthrickia og utsløckva/ hvar til hañ hefur kappsamlega brukad syn verkfæri/ej einasta a Gamla Testamentesens Tyma/ helldur og eirnen Tyma Nya Testamentesens. J Christi Tyd brukadi hañ thar til Saducæos, huøria Christur vegsamlega vañ og **nidur thaggadi:** Thuilyk verkfæri syn hafde Sathan i Borgeñi Athenis sem kølludu St. Paul **ordsnap**/ fyrer thui hañ hafdi bodad theim Evangelium ut af JEsu Christo og upprisuñe /vid thuilyk hans verkfæri matti hañ eirnen stryda i Corintho Borg / sem sia ma af hans merkilegri rædu/ja vor Hollds leg skinseme hefur hier uṁ rangar og efasamar meinyngar / epter thui **hun veit ej GUDs Krapt**/ og kañ ej ad skilia thetta hans Mikla maktar Verk; Eñ so ad vier sem heilagur Ande hefur theñañ Saluhialplega sañleika opeñberad/ og han medteked høfuṁ **mættuṁ meir og meir i honuṁ rotsetiast og grund**-
val-

Matt.22 Act.17. 1. Cor.15 Matt.22

vallast/ ja støduge r og obifanleger standa med hiartans fognud og glede i lyfe og dauda; vilium vier Thessa Gullvægu Jatnyng Jobs gaumgiæfelega yfervega med synum kryngumstædum sem eru sierdeilis Sio/ huøriar vier ættum i fersku miñe ad hafa ej ad eins i Dag helldur alla 7. Daga sier huørrar Viku sem yfer oss kiemur iñ til Daudans og Dagaña Endyngar. Ephes.3

I. Qvis

Firsta er su/ huør thetta volldugaa verk mune viña/ ad uppvekia Tha framlidnu lykame: O thu truud Sala/ thad verk viñur eingeñ Mañaña/ eingeñ af theim Nafnfrægustu volldugustu hraustustu/lærdustu og skarpvitrustu sem vered hafa/ eru/ eda verda kuña. Og Kongur Basan/ huørs Sæng var 9. Alna laung/ og fiogra Alna breid epter Karlmans Olboga/ hefur vyst verid sterkur Rise: Vm Samsons afl er oss alkuñugt ut af H: Ritnyngu/ hañ drap Leon/og Deut. 3.

Judic 14. slo 1000. Philisteos med einum Asnakialka / samt kunne hvorugur theirra ad mæta Daudanum / eda ganga honum / i giegn / miklu sydur ad uppvekia nockurn

1. Reg. 3. af Dauda: Salomon Kongur synde morg Merke Theirrar miklu Vitsku sem Gud gaf honum / enn alldrei Thetta ad Uppvekia nockurn Daudann: Kong Alexander hinn mikle / hiellt sig / var og halldenn / medal Daudlegra Manna hinn megtugasti og volldugasti / samt gat hann ei lyfgad apturClitum / hvorn hann helstack i sinne Bradre bræ-di / huad feigensamlega sem hann villdi.

Joh. 16. Sialfur Sathan Hofdynge Heimsens / er bædi sterkur og storvitur / tho gat hann ei med Lyfe Lusum uppkomed a Egypta-Lande / enn sydur falslaust framleidenn upp-

Exod. 8. vaked.

Galldra-Kvinnann i Endor uppvakte

1. Sam. 28 Samuel (sem Ritnyngenn ad Orde klemst) epter Bæn Sauls Kongs / enn Thad var eckj utann Phantasma, spogeri og mis-syn-

synyngar Diøfulsens / hvør mun tha thetta furduverk framkuxma? Thad syner Job berlega seigiande:

**Eg veit miñ Endurlausnare lifer etc.**

J huøriuñ orduñ hañ meinar øngvañ añañ eñ JEsum Christum GUDs eingieteñ Son sem heiter **Høfdynge Lyssens** / Act. 3.
uñ huørn David so vottar / **vier høfuñ eirn GUD sem hialpar / og thañ** Psal. 68.
**drotteñ Drotteñ sem af daudanuñ frelsar:** theñan Gud og Drotten allra sem David uñtalar / meinar Job i siñe jatnyng og tilleggur hønuñ merkilegañ titel sem iñebindur i sier hans blessada Forthienustu; epter upprunanuñ og Rot Sprokßens i thui heilaga Tungumale Hebreskuñe er thessi Titell Goel, thad er Endurlausnari / Frelsari Domari. **Eg veit miñ Endurlausnare lifer etc.** thad er sem villdi Job seigia / eg yferlyse thui / eg hrosa thui ad iñblastureñ

urenn hins Almattuga sem gaf mier Lyfed /
Job. 33. GUDs Ande sem hefur giort mig/
hann hefur upplyst oguppfrædt mig/ so ad jeg
sie og thecki thann fyrerheitna Messiam , jeg
Num. 24 skoda ( enn ecki nu i Nand/ ) thad GUDs
Lamb sem slatrad er af upphafe
Apoc 13 Verralldarennar/ og hugga mig thar vid
i mynumm hormungumm/ i Lyfe og Dauda, ad
thad fyrerheitna Qvinnunnar Sæ-
Gen. 3. di : Ja thad blessada Abrahams Sæde mu-
ne sundurmeria Hoggormsens
Hofud/ thess sem mig nu plagar og pyner
lykamlega og andlega/ og mier med Dau-
danum og hans ofbodi Ognar/ hann mun
mier tilfæra eilyfa Blessun/ Gledi og Fog-
Joh. 16. nud sem eingenn fær fra mier teked:
hann mun Diøfulen dæma / og alla hans A-
hangendur/ myna Motstandendur / og ka-
sta theim i gloande Dyke og Brennestein
huar their verda kualder Dag og
Nott.

Nott fra Eilyfd til Eilyfdar; so odlast jeg allt aptur thad Sathan suipte mig tha mun yfertrodsluñe hamlad / og sinden iñsiglud / og Misgiørnynguren forlykast / og thad Eilyfa Riettlæte tilfært verda: Miñ Broder og Syster, thuilykt hiartanlegt huggunar traust frambydur thier H. Ande i hialpræδesens Ordi/ sem Job; Medtak thad thar fyrer med truudu Hiarta eins og hañ seigiandi; Eg veit miñ Endurlausnare lifer: Seigdu med David, eg mun ecki deya/ helldur lifa og kuñgiora Nafned Drottens; item/ Drotten typtar mig ad vysu/ eñ yfergiefur mig ej i Daudanum edur Grøfeñi: Ibid. vyst mattu vita og okuydeñ thar um vera/ ad hañ yfergiefur thig ej i Daudanum edur Grøfeñi. Ap. 20. Dan. 9. Psal. 118

1. First vegna thess / ad thessi Goel sem

Job um̃talar er thiñ elskurykasti Ættynge/ sem er sañur Madur Fæddur af Mariu meyu/ nu med thui Børnen hafa Holld og Blod / tha er hañ eirneñ i sama
Heb. 2. mata theß hluttakandi Ordeñ: Thetta visse Job/sem hans Jatnyng utvysar/ hañ vidurkieñer og Jatar ej ad eins hans Guddomlega Natturu med thessu orde Vivit, hañ lifer/ epter huørri hañ er med Fødur-
Heb. 13. num̃ og H. Anda / i giær og Dag/ eirn
Psal. 2. og hiñ same ad Eilyfu / helldur og eirneñ vidurkieñer hañ hans mañdomlega Natturu/ a Tymans uppfilly.igu i Einyng Personuñar uppa tekna / thar hañ seiger/ miñ Endurlausnare: Epter thui so er astatt tharftu ej i neinum̃ tilferlum̃ ad tuyla edur vyla/ thessi vor Goel JESUS/ Frelsare og Domare/ er thiñ Broder sem hañ vottar/ Eg styg upp til myns Fødurs og
Matth. 28. ydar Fødurs/ etc. Thad er skied fyrer Holld-

Holldganena og Truna a hañ / GUD og Mañ / thui hañ tok til syn Sæde Abrahams, og gaf Theim Makt GUDS Bornuñ ad verda sem trua a hans Nafn ; Bernhardus seiger GUD er openberadur i Holldenu / og tha vard GUD vor Broder ; Margur hefur ættar noted hia ypparleguñ Moñuñ: Abraham frelsadi siñ Brodur Son Loth ur ovina hønduñ ; miklu vissara og volldugra frelsis / mattu vænta af thynuñ og mynuñ Goel, Endurlausnaranuñ JESU / fra Thynuñ ovinuñ / og hende allra theirra sem thig hata: Joseph til heidurs Hafen a Egypta-Landi / añadest og medtok i Dyrtydeñi alla syna Ætt / og gaf theim besta Landspart i Egypta Landi / sem var Gosen / miklu fusari og fullvissari er Christur epter olluñ synuñ lofunuñ / ur thessa heims Hungri og hormunguñ ad iñtaka oss i thad Himneska Gosen og eilyfar

Joh. 20.
Hebr. 2.
Joh. 1.
2. Tim. 3
Gen. 14.
Luc. 1.
Gen. 47,
Luc. 16.

ar Tialldbuder / thui hañ mun seigiande verda a synum Tyma / kome thier blessader myns Fodurs / og eignest thad ryke sem ydur er fyrerbued fra upphafe Veralldar.

Matth, 25. 2. J añañ mata / mattu miñ Broder og S. thar um fullviss og oknydeñ vera / ad Thiñ Endurlausnari yfergiefur thig ej i Daudanum edur Grofeñi / fyrer thui ad hañ er thiñ trur Frelsari: Goel merker soddañ eirn ættyngia og Forsuars Mañ / sem epter laga Riettenum skilldast til ad frya / frelsa og leisa siñ Brodur / skilldañ og nakomeñ: Tha nockur madur medal Israels Sona hafdi fyrer Fatæktar saker sellt sig odrum framandi / tha atti hans Nanasti ættmadur / Fodurbroder eda Brædrungur ad

Levit. 25 leisa hann / thad var og theirra Skillda og thadañ af nakomnari / ad mæla epter siñ ættmañ ef drepeñ var / og vera hans Blods

Num. 35 hegnari.

En

Eñ vor sætæste JESUS er soddañ vor Goel og Endurlausnare sem oss under Sindena Sellda hefur leist og fryad ur sindareñar og Sathans Thræl= dome og thar med tha tøpudu Arf= leifd Eilyfs Lyfs oss aptur keipt til eilyfs Eigendoms: Til theirrar ly= kamlegu Lausnar gilltu fordum tyma for= geingeleger Penyngar; eñ thu Madur ert med dyrmætara verdi endurkeiptur / sem er blodi JEsu Christi: Eckert añad gilldti / thui hann gaf sitt Lyf til Endur= lausnar fyrer marga / er thad tha møgulegt ad hañ late thig sem a hañ treister / eilyflega yfergiefeñ i Grøfeñi og daudanum blyfa? øngvañ veigiñ / su von og Tru skal thig vekia ad lofa hañ seigiandi / lof sie thier Lausnareñ gode / thu leist hefur myna Sal.

Rom. 7.
Joh. 8.
1. Joh. 3
Matth. 25.
Matth. 20.

3. J Thridia mata mattu truad Hiarta hier um fullviss vera / ad thiñ Goel og

Endurlausnare yfergiefur thig ej i Grøfenū/ thui hañ er o-yferbuganlegur sigurviñari/ Daudeñ kañ ej ad Drottna yfer
Rom. 6. honum. Vivet; Hañ lifer/ seiger Job; thad er sem villdi hañ seigia; jeg sie thad fyrer upplysyng H. Anda/ ad miñ Endurlausnare mun so sem eitt litelegt Lyfsens Trie upprættur verda og af Lan-
Dan. 9. di lifandi Maña burtsliteñ/ tha hann fy-
Es. 53. rer saker Misgiorda syns Folks plagadur verdur: Eg veit thad og lyka/
Ps. 110. ad hann mun aptur Høfuded/ upphefia Daudañ sigra og yferstyga/ so tha hann hefur sitt Lyf til Sinda-Offurs utgiefed/ mun hann Sædi hafa og alleinge lifa/ og Drottens aform mun fyrer hans Hønd
Es. 53. framganga.

Oh/ hvad sætt huggunar Hunang drypur af Thessari Gullvægu grein os Daud-

legum

leaum til Handa, minn Endurlausnare
lifer: thad er sama sem St. Paull seiger. Vier Rom. 6.
vitum Christur er uppvakenn fra
daudum/og deir ecki framar meir
Daudin mun og ecke framar meir
Drottna yfer honum / thetta
ersatt og so er Daudenn uppsuelgdur 1. Cor. 15
i Sigur/ thessi Sigurvinnyngar upprisa
JEsu fra Daudum (fyrer huoria hann
er volldugl̄ega auglystur GUds Rom. 1
Sonur:) Hun er sterkasti Grundvallur
vorrar Truar/ sem Jobs/ umm Holldsens
upprisu/ og thad hann sie volldugur nog ad
vekia oss upp af Jordunne / eg life / og Joh. 14.
thier munud lifa eirnen seiger hann/
thad seiger hann sem er trur og sannar- Apoc. 3.
legur vottur / thui hann er uppri- Joh. 11.
san og lyfed; thetta stadfester H. Ande 1. Tess. 4
fyrer St. Pauls Tungu/ so talandi / ef vier

truum Thad JESUS sie daeñ / og upp aptur riseñ / tha mun Gud og eirneñ tha sem sofnader eru fyrer Cristum med honum framleida. thetta thrent adur a hrært / so gott og gledilegt / skalltu vel miñast tha thu att ad mæta theim thremur Hrellyngaar tilfellum sem aller meiga vidbuast sem GUDs Thionustu meñ vilia vera.
Syr. 2.

1. Thad first a er andleg freistyng: GUd giefur Job godan Vitnisburd fram yfer alla Meñ / sem lesa ma i Jobs Bokar Cap. I. tho var hañ ej Saklaus fyrer GUdi / so sem hañ epter sialfs syns Samvitsku dome / avysar med siñe Jatnyngu i 13. Cap: seigiandi tho vil jeg straffa myna Vegu fyrer honum : Hvad muntu Tha O! Madur meiga seigia / sem indreckur ranglæted sem vatn? sañlega jeg / thu og hvor eirn / thad sem Daniel sagdi samt Israels Lyd / vier hofum syndgast / giort

Jobs, 1.
Job. 13.
Job. 15.

giort oriett / og verid ogudleger. Dan. 9.
Hvad er til Rads ad taka tha vorar Sinder andsvara oss so ? Tha helld eg best ad breita epter theim Sæla Job / ad lyka sem hañ i siñe freistyng flydi til Christum alls Heimsens Endurlausnara / med hreirni Hiartans Tru hans Forthienustu um̃fadmandi / um̃ fyrer giefnyng og miskun Guds audmiuklega bidiandi ; so skalltu lyka sindugur Madur giora / og jafnan miñugur JESU Christi vera i sañri Tru / sem breſtlauſt bærti Øll thyn Brot / thar med theſs Vitnisburdar sem H. Ande ber um̃ hañ / fyrer muñ hins heilaga Johanis af hans firsta 1. Joh. 2. Pist. 2. Cap. huør so hliodar / **ef einhuør sindgar / tha høfum̃ vier arnadarmañ JESUM Christum thañ Riettlata / hañ sami er forlykun fyrer vorar Sinder / eñ ej alleinasta fyrer vorar / Helldur allrar Veralldareñar :** Thegar nu Sathan

sinyr sier. ad thier seigiandi/ jeg veit ad thu ert suivirdelegur Sindare / jeg veit GUd er thier Reidur/ jeg veit Thu
Ephes.2. ert Reidennar Barn/ jeg veit thu ert
2Sam.12 Daudans Barn/ jeg veit thu ert Hel-
Matt.23 vytess Barn/ tha skalltu i Truñe horf- andi uppa thiñ Frelsara JESUM/ and- suara Sathan seigiandi / jeg veit miñ Endurlausnare lifer/ eg veit GUD hefur kastad ollum mynum Sind-
Es. 53. um uppa hañ/ eg veit hegningin la a honum/ so vier hefdum Fri-
1. Cor. 1. din ibidem: Eg veit hañ er oss af Gudi giordur til Riettlætis / helgunar og endurlausnar: Eg veit thad og er thess fullviss/ ad huor- ke Daude nie lyfed/ huorke hid na- læga nie okomna / huorke hæd

nie

nie dypt/ nie nockur skepna/ fær skiled oss vid thañ Kiærleika Guds/ sem er i Christo JEsu / eg veit hañ er sa sem so talar/ eg vil leisa tha fra Helvyte og frelsa tha fra Daudanum. Rom. 8. Os. 13.

So sem Moises utleiddi fyrer Gudlega adstod/ Israelis Lyd af lykamlegum Thrældome Egypta-Lands/ so hefur sa mikle Spamadur vor milldi JEsus/ leist oss og leidt syna fangara/ ut af theirri Helvytsku grifu (huar eckert hugsuolunar Vatn var iñe) fyrer blod Sattmalans. Deut. 18. Zach. 9.

2. Thar næst thienar oss thetta til huggunar i holldlegri motlæyung/ Christur er thiñ Broder / Endurlausnari og sterkur verndare; sem adur er sagt/ eñ thegar hañ dregur undan Hialp og huggun / og lætur thier hana ej so bradt og fliott til handa koma sem thu villt / tha kueinar thu med Jeremia, seigiandi af hans harmaarat I. Cap. Meñ heira thad vel ad jeg andvarpa / Tren. 1.

en

eñ hefi tho ongvañ hugsualara / aller myner ovimer heira myna ogiæfu / og gledia sig / thad giører thu: Tha so hender sig / lattu thesse Jobs Ord vaka thier i miñe so theinkiande / Tho aller myner Viner / Naungar og Kuñingiar Deye fra mier og yfergiefe mig / samt
Es. 50. veit jeg miñ Endurlausnare lifer / sem mig alldrei yfergiefur / og so seiger: hvørt er myn Hønd nu so stutt ordeñ ad hun kuñe ej ad frelsa?
Es. 41. eda huørt er thar eingen Kraptur hia mier til ad frelsa. Og eñ seiger hañ ottast ey / eg em med Thier / vyk Thu ey thuiad eg er thiñ GUD / eg stirke thig / eg hialpa thier eirnen / eg helld thier vid fyrer tha hægre Høndina myns Riettlætis.

Thegar Saul Kongur var falleñ a Fiøllum Gilboa, flikteft allur Israel til Davids / eink=

einkum Kinthattur Juda, vonande ſier hins beſta af honum / fyrer thad hañ var theirra Aettynge / ſo lyka Thu Chriſten Madur / tha thier ſyneſt øll thyn heill og hialp falleñ og fareñ / flydu tha til theſs Himneſta Davids thyns Broðurs og Endurlauſnara / theſs liufa Lyſſens Høfdyngia / ſeigiande **ein er vor Huggun epter ſu / aller ſamañ ad ſøfnunſt nu / og bidium thig vor blyde GUD / ad biarga oſs ur allri Naud.** 2. Sam. 1 Act. 3.

3. Jthridia mata thienar oſs thrent aduertied / til hædſtu Huggunar i Lyſſens endyng eda i Daudanum: Thiñ Goeledur Endurlauſnari er ej ad eins epter ſiñe Guddomlegri Natturu / helldur og eirneñ Mañdomlegri / **Høfdynge Lyſſens**; i ſoddan Tru gieck Job gladur i mott Daudanum / ſeigiandi i ſynu Hiarta / jeg veit ad Meſſias (edur Chriſtur) mun fyrer mynar og alls Heimſens Synder Daudañ lyda /

 thar

thar jafnframt veit jeg thad / ad hann
mun ej af Daudanum̃ hallden̄ ver-
Act. 2. da / thad er omøgulegt / thui mun han̄
i giegnum̃ briotast port Daudans
Mich. 2. til Lyssens / og soleidis mier og ollum̃ ve-
gur vera / ur Naud Daudans til Lyssens :
Thui villtu tha min̄ Broder og Syster hræ-
dast Daudan̄? Thin̄ Broder / høfud og Hyrd-
er / ja thin̄ Endurlausnare lifer /
og er upprisen̄ / hann hefur likla Hel-
Apo.c,1 vytis og Daudans / thui hlytur thu
hans Limur og saudur hans haglen-
Ps.110. dis / eirnen̄ ad upprysa / Ef upprisa
framlidenna er ej / tha er Christur
1 Cor 15 ej upprisen̄ seiger St. Paull ; en̄ nu er Chri-
stur upp aptur risen̄ af Dauda og frumbur-
ibidem dur orden̄ theirra sem sofnader eru / thess
vegna / tha thu merker ad Dauden̄ snyr sier
ad thier snuduglega / snu thier tha ad JESU
thynum̃ Endurlausnara blydlega / seigian-
di

di i stodugri Tru. Eins sem af Dauda uppreis thu i Grof mun jeg ej blysa etc.

En thu sem villt thesse Threfolld Huggunar Not/ af thynum Endurlausnara hafa/ og theim behallda / thu skallt ey sleppa thessare Gullvægu Glosu / mig; ur thynum Hug og Hiarta / thui a thessu Ordi rydur miøg miked. Min Endurlausnari seiger Job; Thad er ecke so ad skilia/ sem han thikest hafa eirn sierdeilis Endurlausnara/ vid hvorn adrer hafi sig ey ad hugga / helldur er thetta eitt oflugt Truar Ord/ sem villdi han seigia: Jeg veit han er ey alleinasta annara manna Endurlausnare/ helldur er han og so min Endurlausnare/ thui thad næger ey nog/ ad vita hvad Christur hefur giort/ Dioflarner vita thad eirnen/ og hafa thar eingen Not af/ helldur liggur magt a/ ad hvor eirn fyrer sig/ tileinke sier an tvylunar Forthienustu JEsu Christi/ seigiande med Admon. Jac. 2.

Joh. 20. Tomâ, Drottiñ miñ og GUD miñ/
Gal. 2. og med St. Paule: Eg life i Truñe Guds Sonar sem mig hefur elskad/ og sialfañ sig utgiefed fyrer mig/ thui
Hab. 2. sa Riettlate lifer af siñe Tru: J theisari Tru til GUds Sonar lifde thetta Sæla og blessada GUds Barn (sem vier høfum nu hier til Hvildar lagt) um̃ syna Hiervistar-Daga/ med heñi um̃fadmade hun siñ Endurlausnara/og hans fullkomlegustu forthienustu: Med heñe sigrade hun allar Freistyngar og Motlætyngar/ eirneñ Daudans Kvyda/ og er so hiedañ i Fride fareñ heim i thad Himneska Fødur-Land: Heñar En-
Joh. 11. durlausnare sem er Uppriसañ og Lyfed/ huorium̃ hun lifde og deide/ hañ mun hana uppaptur vekia af Jørduñe/ so sem hun af Hiarta trude/ og med Muñenum̃ jafnlega jatadi/ huad heñar epterlifande Astvinum̃ er hin hædsta og besta Harmabot.

II. Qvid. J añañ mata er ad alyta i thessare jatnyng

Jobs

